# Stutt og Einfølld Undervijsun Um Christenndomenn,

Samanteken epter Frædebokum hinnar Evangelisku Kyrkiu

Af
Mag. Jone Þorkelssyne Widalin,
Fordum Biskupe Skalhollts Stiftes
(Sællrar Minningar)

Pryckt i Kaupmannahofn af Niels Hansen Møller,
Anno MDCCXL.

Joh. 17. v. 3.

Þad er eyliift Liif, ad þeir þecke þig einn sannan GUd ad vera, og þañ þu sender, JEsum Christum.

1 Cor. 12. v. 3.

Eingenn kann JESUM, Drottenn ad kalla, nema fyrer Heilagann Anda.

1 Joh. 3. v. 23.

Þad er Bod hanns, ad vier truum ꝏ Nafn hanns Sonar, JEsu Christi, og elskunst innbyrdis, so sem hann hefur skipad oss.

Imprimatur
C. W. Worm.



# Til Lesarans.

VEl talar St. Petur i sijns Fyrra Pistels 2. Cap. v. 2. 3. er hañ seger: So girnest nu, eins og ny fædd Børn, hina hreinu og ofølsudu Miolk, so ad þier eflest af heñe, epter þvi þier hafed smackad hvad sætur ad Drottenn er. Eingenn Efe

er a þvi, ad Postulenn nef-
ner GUds Heilagt Ord, Miolk,
i þessum Stad, og þo hellst hid
fyrsta Upphaf Christelegs Lær-
doms; hver Ordshættur ad
Heilagre Ritningu er altamur:
Eg baud ydur Miolk og
eige megnann Mat seger
Paulus 1Cor.3.v.2. Og er þetta
næsta vel tilfunded; eins og
Börnenn nærast a Miolkenne, so
nærest hin Andlega nya Skepna
GUds, i Christo æ hans Orde.
Börnenn kunna eige ad lifa æn
Miolkur; þeim er og vijs And-
legur Daude, sem eige hefur sitt
Fostur af Guds Orde; Fyrer
Guds Ord erum vier Endur-
fædder; med Guds Orde verdum
vier

vier endurnyader, og af Guds Orde vorum vier til fullkomens Mælers Christi Alldurs, so sem Paulus ad orde kemst Eph.4.v.13. J Skijrneñe, og fyrer Guds Ord smøckum vier fyrst hvad sætur ad Drottenn er, þvi þar ødlunst vier Truna, so sem Frelsarenn seger; ad Ungbørneñ true ꜳ sig, og ad þvilijkra sie Himnarijke; enn nær vier drøgunst ꜳ legg, þꜳ verdur oss frammbodeñ þesse hreina Miolk i vorum Barna Lærdome, og þad allra fyrst i hinum Minna Catechismo hins Sæla Lutheri, vorrar Kyrkiu

Lærefødur, hver ad sønnu hefur allt þad i sier folged, sem Christeñ madur þarf ad trua sier til Myskunar, og Saluhiælpar. Enn fyrer þvi, ad hann er so sem

Upphafs stafer Christelegs Lærdoms, Hebr.5.v.12.

og giørdur til þess, ad Børnenn, strax aa Ungmennis Arum, skule nema, og kunna hann utan ad, þaa er hann æred stuttur, og alleina þar fyrer Børnunum i fyrstunne eige so audskilenn, ad þau kunne ad færa sier i nyt þaa Guds Gaafu, so sem þarf, nema hun sie þeim greinelega utløgd; hvar fyrer margur Gudhræddur og Lærdur Madur, hefur skrifad Utskijring yfer þesse Fræde, og

eru

eru nockrar þesshættar Bækur utgeingnar a vora Tungu: þar er ein Bok, kølluð Leikmanna Biblia, utgeingenn 1599. er utlagt hefur Sal. Herra Gudbrandur Biskup Hola Stiftes, (sællrar Minningar) hver ed vel utskijrer Innehalld þessa Catechismi, og oska eg, ad su Bok mætte aptur þryckiast, þvi hun er hin nytsamlegasta ein fyrer sig, til þeckingar Christenndomsens. Þar er Enchiridion edur Handbok þeirra Lærdu Manna D. Davidis Chytræi, og D. Martini Chemnicii, og svo utløgd af Herra Gud-

)( 4 brande,

brande, prentud ad Holum 1600. Su Bok er agiæt, enn þo leingre enn so, ad þeir kunne ad nema, sem annadhvert eru onæmer, edur ei fæ tom til ad ydka sig storum i Bokalestre, so sem eru þeir, ed hliota ad vinna fyrer sinu, og annarra Braude. Þar er og so hinn Store Catechismus, er vier so kollum, einnenn epter Utleggingu Herra Gudbrands, ad eg meina; enn su Bok er æred laung, og valla þienanleg, nema þeim, sem hafa godar Stunder: Enn af þessum þrem Bokum, og þeim Formaalum, er þeim fylgia, er audsært, hvad mikla Astun-

Astundan, ad sa Gudsmadur hefur haft til ad efla Christenndomenn i Lande voru. Til eru og so Høfudgreiner Christelegrar Truar, er ut hefur lagt Sal. Sr. Jon Arason Profastur i Isafiardar Syslu; þad er god Bok, enn nockud laung, so sem hinar. Eige veit eg hvert hier eru adrar þessháttar Bækur so merkelegar.

Nu fyrer Þvi, ad Þessar Bækur eru ad mestuleite urgengnar, Þa hefe eg samanteked Þeña litla Bækling, er eg kalla Undervijsun um Christeñdomenn og leitast vid i honum, epter Þeirre Raad, sem GUd hefur mier gefed, ad utskijra, med greinelegum og skilianlegum Ordum, Þa Hlute, sem i hinum Minna Lutheri Ca-

Catechismo kiender eru, og þang-
ad eiga ad heimfæraſt. Hverſu mier
hafe þad tekeſt, læt eg ødrum epter
um ad dæma; hitt vitnar Samvitſka
mijn, ad eg hefi þad eige betur kunn-
ad. Eg villde, ad ſønnu, hafa lagt
ut hinn Stærra Lutheri Catechiſ-
mum, þvi eingenn er betre, og
eige øllu leingre Bok enn þeſſe, enn
i honum er ſumt þad, ſem ſierilage
vidkemur Þyſkalande, og ſo þeim
Tijmum, er ſa GUDs Madur lifde
a; þvi ſyndeſt mier rꜳdlegra, ad
fylgia honum, og ødrum vorrar
Kyrkiu Fræde-Bokum, þad næſta
eg kunne, helldurenn ad leggia hann
ut Ord fyrer Ord. Meige nu þeſſe
Bæklingur heita þeſſ verdur, ad
hann kunni ad hialpa til, ad leggia
einn Stein i Chriſts-Kyrkiu hier i
Lande, þa vil eg hafa umboded
øllum Forelldrum, Huſſbændum, og
ſierhverium, ſem annadhvert eiga

Bør-

Bornum, edur fœfrodum Hiwum til ad segia, og svara GUde fyrer Sœler þeirra, og ecke annad betra hafa, ad þeir brijne hann fyrer þeim, sem GUD hefur þeim tiltrwad: Þvi eg vona, ad hver sem hann les med athygle, þa mune hann, ad samverkanda Nœd Heil. Anda, so miklum Skilninge nœ i sijnum Sœluhialpar efnum, sem honum næger, ef hann þar fyrer utan œstundar godar Kenningar, bæde heimuglegar, og openberlegar. So bid eg ydur nu, ad endingu, Christner Menn, fyrer Myskunar Jdur Guds vors, og JEsu blessudu Under, hafed Myskunseme med Sœlum ydar, Barna ydar, og Hiua, so ad eige kome þier, nie þau, i þann Kvalastad, hvadan eingen er Endurlausn; Ja, eg grœtbæne ydur med St. Pals Ordum, er hann skrifar 2. Cor. 5. v. 20.

Og

Og svo hlioda: vier erum Sendebodar fra Christo, og so sem ad GUD beidde ydur fyrer oss, þa bidium vier i Christi Nafne, forlijkist vid GUD, þvi hann hefur giørt hann ad Synd fyrer oss, sem ecke visse af Synd, so vier yrdum Guds Rettlæte i hønum; enn eingenn er annar Vegur til ad forlijkast vid GUD, helldurenn ad þeckia hann Sannan Gud ad vera, og þann er hañ sende, JEsum Christum; hvad vier kunnum eige ad ødlast fyrer utan greinelegann Skilning vors Barna Lærdoms. Þar fyrer, ef þier elsked ydar Sæluhiælp, og ef ydur svijda þær Illgiørdernar, er hinn Saklausa Guds Son kvaled hafa, þegar hann bar vorar Synder uppa

Gal-

Giælgann; þa læred ad þeckia Gud og hans Christ, og lifed þar epter i Elskunne til hans, og inn-byrdes Kiærleika hver vid annan, og giored verduga Avoxtu Idran-enne. Enn GUD, Fader vor allra, sa ed alla Hlute kann yferfliotan-legar ad giora, enn mijn syndug Tunga kann fyrer ad mæla, hann styrke ydur i ollu godu Verke og sier þægelegu, sijnu dijrdarfulla Nafne, til Lofs og Heidurs, enn ollum oss til Sialar og Lijfs nota! þess oskar af alhuga

Ydar Þienare og Broder
i Christo,
J. WIDALIN.

Skalhollte þan 20. Martii
1718.

(NB. Þessmun Lesarenn giæta, ad þeir Latinsku Bökstafer, sem standa innan i þessu Teikne () hiaa Ritningarinnar Atrides-greinum (sem optast eru þrycktar med nockud stærra Letre) eiga eige ad lesast i Huss-lestre, helldur vijsa þeir til Citatianna, sem standa fyrer nedan a Spatiunne, enn ei inne i Bokenne, so þær eige tefie Lesarann, og kann hver einn, sem þad þoknast, epter þeirra Tilvijsun, ad finna þa somu Grein i Ritningunne, er hver fyrer sig tilvijsar.)





J. N. J.

# Sannur Christeñdomur.

### Hvad er Christendomurinn?

Hann er riett og sønn Tru a einn GUD, sem skapad hefur Himinn og Jørd, su ed krøptug sie til frammkvæmdar þeirra Hluta, sem GUD hefur bodid, og til ad fordast þa hlute, er hann bannad hefur, og so til ad giøra manneñ Sæluholpin fyrer JEsu Christi Forþienustu.

### Hvilijkur er GUD?

Hann er i sinne Veru eingum Lijkur, þvi hann er øllum ædre og meire, so sem hann sialfur segir; **Hverium vilied þier samlijkia mig, edur jafna vid mig, edur samannbera vid mig, ad vid skylldum lijker vera.**(a) **GUD er einn Ande.** (b) Eylijfur, almættugur, alvitur, i øllum stødum Nálægur; Einginn Madur kann þad ad huxa edur mæla, hvilikur hann sie, og hann verdur best med þeim Ordum

A utmæ-

(a) Esa. 46. v. 5. (b) Joh. 4. v. 24.

útmælaður, sem under eins medkienna vorn Vannmætt og Fævitsku, til ad utskijra hanns Veru; sem er: ad hann er ogrijpanligur, Omælanligur, Oendanligur, Osyneligur, og ollum allra Eingla og manna Skilninge til fulls ooransakanligur. (c)

Er þesse GUd nema einn?

Hann er alleinasta einn i Verunne.

Hvar fyrer leggur þu þetta ord til, i Verunne?

Þvi hann er þrennur i Persónunum.

Hveriar eru þær Personur?

GUd Fader, GUd Sonur og GUd Heilagur Andi.

Hvernin ma eg því trua, ad GUd sie bæde þrennur, og þo eigi nema Einn?

Það getur eigi syndugs mañs Skilningur gripid, samt eigum vier því ad trua, ef vier viljum Guds Børn kallast: Því hann hefur siælfann sig a þenna hatt opinberad, sem sijdar skal sagt verda i Utleggingu Truargreinanna, sem hier a epter fylgia.

Hvers vegna hefur GUd sig openberad?

Til þess, ad meddeila Mannenum Þeckingu sinnar Giæsku, og sitt Rettlæte: Giædskuna til ad elska sig, enn Riettlætid til ad oottast sig; enn hvertveggia til ad trua a sig til Saluhiælpar.

Hvad

(c) 1 Cor. 2. v. 11.

### Hvad er Madurenn?

Sa fyrste Madur var ein Skyniande Skepna, samsett af Saal og Likama, af Gude i øndverdu skøpud epter hans Mynd, fullkomliga Heiløg og riettlaat, og hinum bestu kostum og atgiørfi buen; hverium hann fieck i hendur Raad og Stioorn yfer øllum Skepnum under Himnenum, sialfum sier til Lofs og Dijrdar, enn Mannenum til ædstu Farsælldar nota.

### Hvad er bad Skyniande?

Pad er fullur Raads og Skilnings, sa ed hefur Vitsmune œ ad þeckia GUD, og so allar Skepnur, sem GUd hafdi skapad, og þeirra Edle og Verkaner, og þvilikur var Madurenn i fyrstunne; Hann þeckti GUD sinn Skapara merkelega, og so alla Nattur-una fullkomliga, þvi gaf hann og øllum Dijrum Nafn; œn efa, epter sierhvers Edle; þviad GUd, sem þau sialfur skapad hafde, hann liet þad Nafn halldast, er Madurenn gaf; hann þeckti og, ad Konañ var Bein af hans Beinum, og Holld af hans Hollde; Gaf henne þvi Nafn þar eptir, ad hun skyll-di **Karlinna** kallast. (d) Pvi er audvit-ad, ad hann hefur grant þeckt annara hluta Natturu.



(d) Gen. 2. v. 23.

Af hveriu er Mannsens Lijkame giørdur?

Adam hinn fyrste Madur var af Molldu giørdur: So seger Moÿses. Og Gud giordi Manninn af Molldu Jardarennar, (e) enn Konan er skøpud af Mannsens Rifbeine. (f)

Af hveriu er Sælen skøpud?

Af eingu; þvi Ritningenn seger: Gud blies lifandi Anda i Mannsens Naser. (g) Hvad talad er ad sønnu eptir mannligum Plagsid, enn æ þo eigi so ad skiliast, so sem þegar Madur blæs sinum Anda fraa sier, helldur talar hier so um, þviad Sælen er einn Ande, og æ so ad skiliast, ad Gud hafi hana tilreidt og Mannenum inngefid, eige af nockrum ødrum hlut, eins og Likama Mannsens, helldur af eingu, eins og Einglana, sem og eru Andar. Þvi er Saalen ecke samrar Veru med Likamanum, edur nockrum ødrum ; eim Hlut, sem er þreifanligur og syniligur, og hun þeckest eigi nema af sinum Utriettingum.

Hvad er þad þu sagder, ad Madurenn være skapadur epter Guds Mynd?

Guds Mynd, epter hverre Madurenn skapadur er, er eigi innefalinn i utvortis ælite, þvi Gud er einn Ande, og hefur eige Holld nie Bein, er eigi helldur syniligur nie þrei.

(e) Gen.2, v.7. (f) Gen.2, v.22. (g) Gen.2, v.7.

þreifanlegur nockrum manni, helldur er ſu Guds Mynd innifalinn i þeſſu epterfylgiande. 1. J ægiætre Þeckingu Guds og allrar Skepnu, ſem Gud hafde ſo dæſamlega ſkapad, ſo ſem ædur er ſagt. 2. Er hun innefalin i Rettlæti og Heilagleika Vilians, þvi Madurenn var ſo ſkapadur, ad hann kunne ad vera frij fyrer allre Synd, og þurfti eckert illt ad gyrnaſt; þvi **Gud ſkapadi Mannenn Rettan** (h) ſeger Salomon, og þar var eingen Tilhneiging til hins illa, hvar fyrer þau þurftu ad ſkammaſt ſin. Þvi ſeger Ritningenn (i) **Þau voru bæde naken, og ſkommuduſt ſin eige**, þvi var og Likamen ad ſijnu leite hluttakare þeſſarar Guds Myndar i Heilagleikanum; þvi hvad ſem Gud heimter af endurfæddum Manne epter falled, þad ſama hefur hinum fyrſta Manne vered medſkapad; Enn Paulus bydur (k) **ad vier ſkulum lata vora Limu, ſo ſem Vopn Rettlæteſins, Gudi**, og til þienara Rettlæteſins, til Helgunar: Søkum þeſſarar Guds Myndar var Madurenn odaudlegur ſkaptur, og i hans Skapnade og Likamans Edle og Hattum var eingenn Orſøk til Daud-

 ans

(h) Eccleſ.7.v.29. (i) Gen.2.v.25. (k) Rom.6.v.13.

ans, edur nockurs Motgangs, so leinge sem hann hiellt þessari Guds Mynd; Enn þó vár hann so skapadur, ad hann kunne ad deya, ef hann syndgade. Hvad audsied er af þvi fyrsta Bodorde, er Gud gaf hønum, og so hliodar. (l) **A hverium Dege sem þu etur af Averte Skilnings-triesens gods og ills, skalltu Dauda deya.** Hier af fylgde þad Valld, sem Gud gaf Manneńum yfer øllum Skepnum under Himneńum, so seger GUD: (m) **leggéd Jordena under ydur, og drottned yfer Fiskum Siafarens, og Fuglum Loptsens, og yfer øllum Villudijrum, sem skrijda a Jordunne, og eg hefe gefed yckur øll Groserijn og Eikurnar;** þar ad auke sette hann Manneń i hinn fagra Alldenngard Eden, hvern Gud hafde sialfur prydt med allra handa kostulegum Blomstrum, og Avøxtum, ad hann skyllde yrkia hann; ecke med Mædu nie Erfide, þvi su Plága var ecke enn þa løgd a Manneńn; helldur sier til Epterlætis, og Yndælis, og gaf hønum eckert Bodord ad lifa epter, nema þad eina, ad hann skyllde ecke neyta af Averte Skilnings-trie-

(l) Gen. 2. v. 17. (m) Gen. 1. v. 28. 29.

kriesins gods og ills, til ad syna þar med sijna Hlydne og Undergefne vid GUD sinn Skapara.

Mier skilst, ad Madurenn hafe ei leingé hallded þessare Guds Mynd, enn hvad bar til þess, ad hann miste hana?

Pad skede fyrer slægdarfulla Diöfulsens Aeggian, hvør ed i einnin Höggorme talade vid vora fyrstu Moodur Evu, og ried henne, ad eta af þeim forbodna Avexte; enn hün tælde Mann sinn þar til, og er þau þanng hǫfdu broted GUds Bodord, tøpudu þau Þessare dijrdlegu GUds Mynd, og til merkis þar um, þaa formerktu þau strax, er þau hǫfdu syndgad, ad þau voru nakenn, skyldu sier med Fykinbløđum, og føldu sig fyrer Gude; af þessu formyrkvadest Skilningurenn, so ad holldlegur Madur skyniar ecke hvad Guds Anda er, (n) og Viliènn vard Gude fraahverfur og til alls ills hneigdur, so ad GUd seger (o) ad Mannsens Þaankar sieu vonder i fraa Upphafe; hann meinar, upphafe Syndafallsens, enn eige Skapnadarens. Fyrer þessa Synd voru þau Adam og Eva utrekenn af Aldenngardenum, i hvern GUd hafde sett þau, og Jørdenne var bølvad fyrer Syndarennar Skulld; Þyrna og



(n) 1. Cor. 2. v. 14. (o) Gen. 6. v. 5.

Hïsla skyllde hun bera, og Madurenn skyll-
de med erfide sig af henne næra; alla sijna
Lijfdaga; enn Konunne var sier i lage upp-
aalagt, ad hun skyllde fæda sijn Börn med
Harmkvælum, og under Boonda sijns Vall-
de skyllde hun vera, og hann skyllde vera
hennar Herra; i einu Orde ad segia; all-
er Siukdomar, Hungur, Drepsott, Striid
og Styriölld, Aaaran, Illvidre, og allt
þad Andstreyme, er oss mæter hier i Heime,
þad er Avöxtur þessarar fyrstu Syndar,
og ad sijdurstu Daudenn; ecke einasta hinn
tijmannlege, sem er adskilnadur Saalar og
Likama, helldur og hinn eylijfe, og þessveg-
na höfum vier hann, ásamt med uppru-
na Syndenne, i arf teked epter vora fyrstu
Forelldra, so sem Paulus vottar: (p) Lika
sem Syndenn er fyrer einn Mann innkom-
en i Heimenn, og fyrer Syndena Dau-
denn; einnen med sama hætte er Daudenn til
allra Manna i gegnum geingenn, i hverium
(Manne) aller syndgudu.

Hvad er þad Eylifur Daude?

Þad eru oendanlegar Pijsler, sem alldrei
briota, hveriar og epter Daudan eru ætlad-
ar öllum Vantruudum og ogudlegum med
Diöflenum, og öllum hans Arum, so sem
Endur

(p) Rom. 5, v. 12.

Endurlausnarenn vottar. (q) hvar ad vera
mun Op og Tannagnistran; um hveriar Pisler
Drottenn talar fyrer Munn Esaiæ (r) Og er
þeir (Utvalder) ganga ut, munu þeir
sia Hræ þeirra Manna, sem mig ha-
fa yfergefed, þvi þeirra Ormur mun
alldrey deya, og þeirra Elldur skal
ecke slockna, og þeir skulu verda And-
stygd ollu hollde.

Hvilikur er Diöfullenn?

Hann var i fyrstunne einn dijrdlegur Eing-
ell, skapadur af Gude i sønnum Heilagleika,
eim hann syndgade visvitande, þar hann
var þo so veglegur giør, og vardveitte
ecke sinn uppruna, helldur yfergaf
sitt Heimile, asamt þyrum Einglum, er
med hønum syndgudu; þar fyrer hefur
Gud ecke þyrmt þeim, helldur bund-
ed þa med Myrkranna hleckium,
og steypt þeim til Helvijtis, ad þeir
þar vardveitter verde til Domsens.
(s) Sijdan er hann Guds svarenn Ovinur,
og so Mannanna, leggiande allt Kapp a, ad
draga sem flesta fra Gude, med þvi, ad svikia

A 5 Man-

(q) Matth. 25. v. 41. (r) Esa. 66. v. 24. (s) 2. Pet.
2. v. 4. Jud. v. 6.

Mannskepnuna til ad trua hønum ecke, edur a hann, og briota hans Bodord.

Attu aller Menn ad deya fyrer þessa eina Synd, hins fyrsta Mañs?

Ad sønnu ættu þeir; þvi aller syndgudu i hønum (t) ecke ad sønnu fyrer þann Giørning er hann giørde, þvi þar fyrer ættu þau alleina ad deya, Adam og Eva: enn fyrer þvi þau gætu syndug Børn, eins og þau voru, so sem þar stendur (u) og Adam gat Son epter sinne Mynd, þa hlaut þad allt ad verda Hollð, sem af Holldenu fædt er, þad er Syndugt, sem komed er af Syndugum, so vier ættum nu ad deya fyrer vorar eigenn Synder, sem frammkoma af Uppruna Syndenne, er vier erft høfum. hver og er Dauda verd i sialfre sier, nema GUD hefde af omælanlegri myskun sinne bætt vort Raad aptur ad nyu.

Med hveriu mote hefur hann þad giort?

Þad giørde hann fyrst, strax efter Falled, þegar hann tok Mannkyned aptur i Satt med þvi fyrsta Evangelio, edur Nadar Bodskap, ad Kvinnunnar Sæde skyllde i sundurmeria Høggormsens Høfud, (x) þad er, ad GUds Eingetenn Sonur skyllde sameingiast mañlegu Hollde, og fædast af Kvinnunne

(t) Róm. 5. (u) Gen. 5. v. 3. (x) Gen. 3. v. 15.

unne, og nidurbrióta i bvt santa Hollde Høggormsens, þad er; Diøfulsens Verk, enn frelsa Mannkyned af hans Vaillde, og betala med sinne Pijnu og Dauda, þad sem i Hollldenu syndgad verdur. Fyrer þetta Gudsfyrerheit eru aller þeir holpner vordner, sem trudu a Christum, þann er koma ætte, og uppa hanns tilkomande Dauda, a medann Synden var enn þa **under Guds Polennmæde**, so sem Paulus adkvedur; (y) enn vier fyrer hans Pijnu og Dauda, er hann allareidu lided hefur, sem sijdan lifad høfum, med hverium hann hefur utvegad oss þau Medøl, er oss gagna til Sæluhiælparennar; um allt þetta mun eg hier epter greinelegar tala.

Hefur Madurenn alldeilis mist þessa Guds Mynd, er þu talader um?

Nei, ecke ad øllu leite, so miked er Mañenum epterlæted, ad hann getur þeckt, ad GUD er til, þvi seger Paulus (z) **Hañs osyneleger hluter, allt fra Skopun Veralldarennar, af verkunum athugader, verda i geghumsiener, so sem er hans eylijfur Kraptur, og Guddomur.** Hann getur og viliad

og

(y) Rom. 3. v. 26. (z) Rom. 1. v. 20.

og stundad þaa hlute ad nockruleite, sem goder eru, og fordast hina vondu; hvad vier siaum jafnvel a heidnum mønnum, sem marger hafa talad Skynsamlega um GUD og godar Dygder, og ydkad þær med mikille Kostgiæfne; Enn þo er þesse Þecking ecke nog til Sælluhiælpar, helldur er hun nockurskonar Leidarvijser til hinnar sønnu Guds Þeckingar, hveria sialfur GUD hefur oss opennberad, og verkar þad, ad Madurenn kann ad lifa farsællega annars Heimis.

Hvad er Sæluhiælpenn? Edur hvad er þad, annars Heims?

Eg hefe adur sagt hier, ad Mannsens Nattura er af tveimur hlutum samsett, sem er Lijkamenn, hvern vier siaum, og Saalenn, hveria vier ecke siaum, enn finnum hennar Verkaner, þvi vier Hurum raadslögum og samanberum i vorum þanckum þa hlute, er fyrer oss bera, edur vier heyrum frasagt. Likameñ deyr þegar Sælenn skilst vid hann, þar til hann samteingest henne aptur i Upprisunne. Nu uppa þad hun skule niota kunna eylijfrar Sælu hia Gude, þaa hun burtfer af Lijkamanum, og so um eylijfar Allder, (hvad ed kallast annars Heims, hvar i Sæluhiælpenn og folgen er) þaa hefur Gud opennberad Mannenum

sinn

sinn Vilia, an hvers Madurenn ei kann holpenn ad verda; lijkamenn skal og sinn Vist hafa epter upprisuna.

Hvar edur med hverin mote hefur Gud opinnberad Sig?

Þad hefur hann fyrst giørt med Skøpun allra Hluta, er vier sioum fyrer Augum vorum, so sem eru; Sol og Tungl, og annar Himinsins Her; sem hefur sinn oumbreittann Gang, Ar ut, og Ar inn, fra fyrstu Skøpun Veralldar allt til þessa Dags, Jørdenn, sem a vissum Tinium ber sinn Avøxt, og følgar aptur, Siorenn, sem fellur fra Jørdunne og aptur til hennar, tvisvar a Deige og Nottu, og vex og minkar med Smaastraum og Storstraum, tvisvar a hveriumm Manude, ja, sialfur Madurenn, sem so dasamlega myndast i Modurlijfe, og so furdanlega þadan utleidest, vex sijdan og þroast ad Alldre og Vitsku. Allra hellst Saalen, sem so mikla hlute uppþeinkir, og kann ad ødlast, ef ecke fullkomna, samt miøg aukta Þeckingu þessara Hluta. Þegar ein Manneskia nu ihugar, hvad kostulegt allt þetta er, og under eins, ad eingenn hlutur hefur sialfann sig giørt, edur skapad, þa sier hun og auglioslega þecker, ad þar er ein odaudleg Vera, an Upphafs og Enda, sem allt þetta hefur giørt, og þvi stiornar,

(hveria

(hveria vier GUD køllum) hvar fyrer eingenn Þiod hefur ſu vered i Heimenum, ſem ecke hafe dyrkad GUd med einhveriu moti. Og ſøkum þeſs, ad vier ſiaum bæde Guds Speki, hanns Matt, og hanns Giæſku i øllum þeſſum hlutum, þa hafa vitrer menn, jafnvel a medal heidenna Þioda, alycktad, ad Gud være alvitur, Almattugur, og alls gods Uppſprettu brunnur, eins og eg ſie, ad einn er vitur, þvi hann kann ad giøra þad adrer ei kunna; ad einn er Sterkur, af þvi hann kann miklu ad lopta, einn er Godur, af þvi hann gefur þa hlute, ſem mig ſtoda, og mier ægiætir þykia: Og þeſſer hluter hafa uppvaked, jafnvel i ſumra Heidingia Hiørtum, ſtora Undran um Guds Speke, og Elſku til hans Giæſku og godgirni; Kallaſt þvi þeſſe ihugan, **Guds naatt-urleg Þecking**, hveria aller menn hafa meiga, ſem her um hyra nenna, og heil-vita eru: Og þetta eru þær Leifar Guds Myndar i Mannenum, er eg fyrer ſkømmu talade um.

Er þeſſe þecking GUds nog til ad naa þeirre Sælu epter Liifed, ſem þu ſtrax umgatſt?

Eige er hun nog i Siælfre ſier, helldur er hun leidarviiſer til annarar langtum full-komnare, ſem ædur er ſagt.

Seg mier þa, Hver er ſu Ritning?

Þad er ſu ſem GUd hefur opinberad oſs i Heilagre Ritningu.

Hvad er þad, Heiløg Ritning?

Þad er GUds Ord, hvert ed ritad er af Moiſe, og af Spaamønnunum i Gamla Teſtamentenu; enn af Gudſpiallamønnunum og Poſtulunum i þvi Nya, kennande oſs GUds ſanna Þeckingu, og hans retta Dyrkun, bæde i trunne og verkunum, oſs til eylijfrar Saluhiaalpar.

Hvad er þetta Gamla og Nya Teſtamented?

Þad er 1. tveñſlags Sattmaale. Gamla Teſtamented er Sattmaale ſa, er GUd giørde vid Fedurnar a þeim Døgum, uppa Chriſtum okomenn; Enn Nya Teſtamented er ſa Sattmaale, er hann giørt hefur vid oſs uppa Chriſtum i Holldenu auglyſtañ. 2. Eru þad tvenner Tijmar, ſem Chriſtner Menn ſo kalla; Hinn fyrre er fra Upphafe Veralldarennar, allt til þeſs GUds Sonur opennberadeſt i Holldenu; Hinn ſijdare hoſſt a hañs Hierviſtardøgum, og ſtendur enn nu yfer, og varir til Enda Veralldar. 3. So nefnaſt og almennelega Partar Ritningarennar, þad eru þær Bækur, ſem ſkrifadar eru a hvers Teſtamentis Tijma fyrer ſig.

Hver var Moiſes?

Hann var einn Madur, ſem var Medalgan;

gangari mille GUds og Manna; hann har Folksens Naudsyniar framm fyrer GUd, og openberade þvi hans Vilia; hønum feck Gud i hendur Løgmaaled, þad eru Þau tiu GUds Laga Bodord, sem menn eiga ad læra, og epter þeim ad lifa.

Hvad hefur nu þesse Sanna GUds Þecking framm yfer hina, sem þu aadan umtalader?

Margt er þad; Eg kann eige ad þeckia af Nætturunne, ad Gud sie einn i Þrenningu, og þrennur i Einingu; og eige, ad hann sie so Rettlaatur, ad hann kunne ecke ad fyrergefa Synndernar, nema fyrer fullnogann Betaling; Ecke ad hann sie so Myskunsamur, ad hann hafe sendt sinn Eingetenn Son i Heimen til ad betala fyrer Synndernar; edur ad skynia neitt um Christ edur hans Forþienustu; Ecke þecke eg helldur af Nætturunnar Krøptum Embætte Heilags Anda; edur kann ad skynia neitt um Mannsens Endurgetning, og Endurnyung; edur um krapt, og nytseme Sacramentanna, og ei feinge eg þetta ad vita, nema GUd hefde mier þad i Ritningunne openberad, enn eg þarf þo hier i uppfræddur ad vera, ef eg skal Sæluholpenn verda, og med GUde eylijflega lifa.

Hvar fyrer hefur GUd þannen openberad sig Mannenum?

Til ad bæta oss aptur, þad vier høfdum

i Adams Falle æ mis fared, ad so miklu leite sem oss nægia kynne til Sæluhiælpar, ef vier hans Naad, og Velgiørninga ecke forsomum, og til þess ad vier skylldum hann lofa og dyrka; fyrst hier tijmanlega i hans Naadar Rijke, og sidan a Himnum eylijflega i hans Dijrdar Rijke.

Hvar fæ eg þetta ad læra?

J Utskyring TruarGreinanna, sem eru utdregnar af H. Ritningu.

Hvuik er su Guddomsens Dyrkun, sem vier eigum ad veita honum hier i Life?

Pad er su Pionusta, sem Madurenn æ Gude ad audsyna, bæde i þvi, ad lofa hann og prijsa, þacka honum, heidra hann og elska framm yfer alla hlute, fyrer allt þad gott hann giørt hefur Mannkyninu; so og i þvi, ad trua øllu, sem hann hefur um sig edur sinn Vilia opinberad i Ritningunne, og ad setia allt sitt Traust til hans, og ad giøra þa goda Hlute, sem hann hefur bodid, enn fordast þad hann bannad hefur.

Hvar hefur GUd boded þessa Goda Hlute og bannad hina Vondu?

Fyrst hefur hann þad skipad og bannad i allra Manna Hiørtum: þar aller menn af Natturunnar Liose kunna ad nockru leite ad greina gott fra illu, og illt fra godu, so sem St. Pall seger. (a) Ad Heid-

 ing-

(a) Rom. 2. v. 14. 15.

ingiarner, sem eige hafa Logmaaled, giore þo af Naatturunne, hvad Logmalsens er, hvar med þeir syne Logmalsens Verk ad vera skrifad i sinu Hiarta; Enn allra hellst og fullkomlegast hefur hann openberad sinn Vilia i sijnu Heilaga Løgmaale, sem hann utgaf a Fiallinu Sina i Eydemørkunne, epter þad hann hafde utleidt Israels Sonu af Egyptalande fyrer Hønd sins Þienara Moisis.

Hvad hefur þetta Logmaal inne ad hallda?

Þad hefur inne ad hallda þau Tiu Bodord, sem þu lært hefur i Frædunum, og kallast Ord (b) til hverra allt þad gott heimfæra mꝫ, sem Gud hefur skipad, og allt þad illt, sem hann bannad hefur.

Þvi hefur Gud boded þad Goda, enn bannad ad giora þad Jlla?

Þvi hann er sialfur godur, og alls gods Høfundur og Uppspretta, enn þad vonda er hønum gagnstædelegt; þvi vill hann ad Madurenn (sem i øndverdu var epter Guds Mynd skapadur til ad þiona hønum i Rettlæti og Heilagleika) ad hann verde sier sem lijkastur i øllum sijnum Huxunum, Ordum og Giørdum.

Fyrst

(b) Devt. 4. v. 13.

Fyrst GUds Sonur hefur bætt fyrer Syndena; hvi þarf hann ad lifa epter þessum Guds Tiu Bodordum?

Hviad Guds Sonur hefur broted Afl Syndarennar, og afmaad hennar Straff, enn eige Løgmaaled, Hann er komenn til ad uppfylla Løgmaaled, enn eige ad uppleysa þad, edur onytt giora. (c) Gud saa, ad Madurenn gat ecke hid minsta af Løgmaalenu fullkomlega uppfyllt epter þad hann var fallenn; þvi sende hann Sonenn til ad uppfylla þad vor vegna, samt vill hann þo, ad vier skulum Løgmaalenu hlyduger vera i øllu þvi vier getum.

Med hverin mote afhendte GUd Moisi þetta Løgmaal?

Hann feck hønum þad skrifad aa Tveimur Stein-tøblum.

Hvad mørg voru á þeirre Fyrre?

Þar um hafa menn eckert vist, rijdur og aa eingu ad vita þad, alleina søkum þess, ad vor Endurlausnare seger, ad allt Løgmaled og Spaamennerner sie innefaled i þessum Bodordum; (d) Elska skalltu Drottenn GUd þinn af øllu Hiarta þinu, og af allre Ondu þinne, og af øllu Hugskote þinu, og þinn Naunga sem siaalf-



c) Matth. 5. v. 17. (d) Matth. 22. v. 37.

ann þig. Þa segia menn, ad þau Bodord-enn, sem ahræra Guds Dyrd, hafe vered a þeirre Fyrre, enn hin, sem Naungans Elsku snerta, a hinne Sijdare.

Hvad morg eru þa hver um sig?

Þau sem Guds Dyrd sierdeilis ahræra, eru alleina Þriu, enn hin Sio.

Villtu segia mier Utskyring Bodordanna?

Eg vil ad sonnu, enn þo skalltu athuga fyrst þessar epterfylgiande Reglur, ef þu villt rett skilia, og þier i nyt fæ ra Guds Tiu Laga Bodord.

1. Bodordenn eiga eige so ad skiliast, so sem ecke sie meira i þeim boded nie bannad, enn þad syneft ad vera i fyrsta Alite; helldur epter þvi, sem bevijsad verdur af Heilagri Ritningu, ad þau eige ad skiliast, og so sem Gud hefur þau sialfur utlagt i sinu H. Orde.

2. Þar sem nockur Hlutur er skipadur i einu Bodorde, þa skilst þar under, ad þad bannad sie sem þeim hinum sama gagnstæde-legt er, og þar sem eitt er bannad, þa er þad under eins skipad, sem þar er þvert a mote: til dæmes; J Fiorda Bodordinu er skipad ad heidra Fodur og Modur; þvi er þar under eins bannad, ad vanheidra þau: og i þvi Fimta er bannad ad vega Mann; þvi er þar einnen boded, ad hialpa honum til Lijfsens, ef a liggur.

3. Þad

(4): Þad ber skynsamlega ad adgreina i Bodordunum, sem ad øllum Mønnum vidkemur, so sem er: (1) Allt þad, er af Nattúrunne er openbert øllum. (2) þad sem af Christo, og hans Postulum er i Nya Testamentesins Bokum itrekad, og øllum boded, fra hinn, sem sier i lage vidkom Israels Folki. (3) Hotaner Løgmalsens eiga ad skiliast med þvi Fororde, ad þær endelega skule framkoma, nema Syndarenn idrest; þvi þott ad Løgmaled utheimte fullkomna Hlydne, (e) þa er þo þess Bølvan burttekenn af þeim sem idrast og trua a Christum. (f)

(5) Fyrerheit Løgmalsens a med þvi Skilorde ad utleggia ad Madurenn, fyrer hvern Guds Sonur hefur Løgmaled uppfyllt, sie þo alltijd skylldugur Krossenn ad lijda; þvi Syndarenn hefur hann forþienad, og langtum meira enn Gud leggur hønum uppa, jafnvel þeim er hann elskar, til ad temia Holldsens Girnder, so ad Truan a Christi Forþienustu, sem hia Guds Børnum er i stadenn fyrer Løgmalsens Uppfylling, hun eflest þess meir, og ad hann verde Saluholpenn fyrer Truna, sem vegna Holldsens Veikleika, getur eige orded fyrer Løgmaled. (g)



(e) Gal. 3. v. 13. (f) Rom. 8. v. 1. (g) Rom. 8. v. 3.

Ad þessu vil eg giæta, enn þo mæ eg fyrst spyria
Hvad merkia þesse ord, Hotaner Løgmælsins,
Fyrerheit Løgmalsins?

**Hotaner Løgmælsens** er þad Straff, sem Gud hefur hotad þeim, sem Løgmæled eige hallda; so sem þetta. (h) **Bølvadur sie sa, sem ecke helldur allt þad, sem skrifad stendur i Løgmælsens Bok, ad hann giøre þad.** **Fyrerheit Løgmælsens** er allt þad, sem Gud hefur fyrerheitid þeim, sem Løgmæled fullkomlega hallda, so sem þetta: hver sem þetta giører, hann skal lifa þar i, og annad þvilikt.

Hvad merker þetta ord, ad lifa? Margur lifer leinge, mun þad koma af þvi, ad hann helldur Løgmæled?

Længt er fra þvi; helldur kemur þad af Myskun Guds, og Þolenmæde, sem vill draga Syndaran til Idranar og sinnar Þeckingar, ad hann holpenn verdi: og þott hann viti, ad sumer verde ei þessarar sinnar Nadar niotande, søkum þeirra Þvermodsku, og Hirduleyses, þa samt frammbydur hann þeim Nadena, so ad þeir hafe einga Afsøkun, enn ad hans verde Dijrdenn: Enn þetta ord, ad **Lifa**, merkir allra handa Farsæld bæde tijmanlega og eylijfa, sem sidar mun sagt verda. Seg-

(h) Devt. 27. v. 26.

Seg mier nu þesse Tiu Guds Boðorð og þeirra Utskyring?

Það vil eg giøra, enn giært að þvi, sem eg strax sagðe. Les þið Fyrsta Boðorð.

Eg er Drottenn GUD þinn, þu skallt eigi hafa annarlega Gude fyrer mier.

Þu hefur sagt mier að nockurleite hvilikur GUD sie, enn hvað er þetta, að hafa annarlega Gude?

Eg hefe að sønnu; þo ættu að merkia það i þessu Boðorði, að GUD setur það allra fyrst af Boðorðunum, til þess að syna øllum Mønnum, að hann hafe Valld til að bioða, bæðe það sem i þessu Boðorðe er skipað og bannað, so vel sem i øllum hinum, sem æ epterfylgia; þvi ef hann er Guð, sem øllu stiornar bæðe a Himne og Jørdu, og bæðe Mannenn og aλla aðra Hlute giørt hefur, þa er auðvitað, að hann hefur mikla meira Valld til að skipa hveriunn eimum það hañ vill, helldur enn nockur verallðlegur Høfðingie eður Konungur hafa kañ, og þ að Valld, er þeir hafa, það hafa þeir alleina af hønum.

Þetta skilst mier, enn seg mier nu hitt, hvað er að hafa annarlega Gude?

Fyrst byriar að athuga hvað þetta orð merke, að hafa. Menn kalla að hafa

einn Hlut, er menn hallda a, bruka edur geima; so a þetta Ord ecke ad skiliast i þessum stad, þvi Gud er oþreifanlegur, og osynilegur, verdur þvi ecke geimdur edur innelokadur i nockurre Hirdslu edur Herberge, edur med Hönd hafdur, eins og likamleger hluter; helldur merker þetta Ord, **ad hafa**, i þessu Bodorde, eckert annad, enn ad hafa eitthvad i Hiartanu, hveriu Mannsens Hugur treyster avallt, truer a þad, vonar a þad, og vænter sier þar af Hiælpar og Adstodar, hvad sem aliggur, og alls annars gods, bæde i Medlæte og Motgænge, i Lijfe og Dauda. Enn **annarleger Guder** voru fordum daga. 1. Allur Himensens Her, Sol, Tungl, og adrar Stiørnur; item ferfætt Villudyr, er menn høfdu gagn af, epter hverium Heidner menn smijdudu Skurgod sijn og Likneskiur; So og voru þad Bilæte Daudra manna, Konunga og Landshøfdingia, þeir ed mektuger voru, og brutu adra under sig; so sem voru hia oss **Þor** og **Odinn**: hveria þeirra Epterkomendur, fyrer Tilteiging Andskotans, giørdu ad Gudum, til ad hræda þar med einfallt Mannkyn, sem ei visse af hinum sanna Gude, og stod af þessu ecke allitell Otte, þvi þeir meintu, ad þeir væru

Godanna

Godanna Syner, er feingu mønnum slijkt til Atrunadar; So og voru þeir dyrkader, so sem Guder, epter Daudann, sem upp høfdu funded Menter og Kunster Mønnum til gagns og Nota, edur Skemtunar; so sem: Skalldskap, Hliodfære, Læknisdoma, Smidverk, Hagleik, og annad þvilikt; Item Kvikinde Jardarennar, jafnvel hin audvirdelegustu, hver ed Heidner menn dyrkudu. Um allt þetta talar Paulus, (i) segiande; **þeir hafa snued Dyrd oforgeingelegs Guds i Bilætis Liking forgeingelegs Mañs, og Fugla og Fiska, og Ferfætlinga;** og skømmu sidar seger hann; **Ad þeir hafe umbreitt Guds Sannleika i Lyge, og gøfgad og dyrkad Skepnuna fram̃ hia Skaparanum.** 2. Er þad allt þad, er Menn tilleggia þann Heidur og Virdingu, er Gude alleina somer; so sem þegar þeir ottast Mennena eins, edur framar, enn Gud, og hlyda þeim i þvi sem GUD hefur bannad, edur treysta nockrum hlut jafnframt hønum, hvert helldur þad eru Eigner, Valld, Metord, Afl edur Vitska, edur hvad annad, sem menn hafa Traustᵭ. 3. Er þad allt þad sem Menn þacka fyrer medtekna Velgiørninga, jafnt

B 5 Gude

(i) Rom. 1. v. 23. v. 25.

Gude, edur framar hønum: so sem; ef nock-ur giører oss gott, þa stundum vier ad þockuast hønum aptur (sem ad sønnu a ad vera) enn Gude giallda menn litlar Þacker þar fyrer, edur kostgiæfa ad lifa epter hans Bodordum (hvar med hønum verdur best þackad) og nockrer þacka sialfum sier, og sijnum Atburdum og Skynseme, Lan sitt og Lucku, þad er allt, **ad hafa annarlega Gude:** Þvi hvad hellst, sem vier gott hliot-um, hvert þad kemur fra ødrum mønnum, edur vier sialfer kostum voru Erfide edur Ahyggiu þar til, þa kemur þad allt i fyrst-unne fra Gude; og a hønum þar fyrer ad giallda hinar mestu Þacker, annars ovirdum vier hann og høfum **annarlega Gude.**

4. Eru **annarleger Guder**, allt þad er Madur elskar, so miked edur fram-ar helldur enn GUD, hvert þad eru Menn-erner lifande edur dauder, edur eru þad adrar hans Skepnur, Gots og Peningar, og sierhvad annad, sem GUD hefur oss gefed til nota, jafnvel vort eiged Lijf; þvi menn eru skylduger ad læta þad, helldur-enn ad giøra visvitande þad sem Gud hefur bannad, annars syndga menn a mote þessu Bodorde; þvi seger Christur (k)

Ef

(k) Luc. 14. v. 26.

Ef nockur kemur til min, og hatar (*) ecke Fodur sinn og Modur, og Konu sijna og Brædur sina, og Systur, og jafnvel sitt eiged Lif, hann kann ecke minn Lære-sveinn ad vera.

(*) ad hata merker hier (epter Ords-hætte Ritningarenn ar) ad elska minna conf. Matth. 10. v. 37.

Enn hin versta Afgudadyrkun er ad elska Holldsens Girnder, Synder og Leste, og liggia i þeim a mote Samvitskunne.

I þessu Bodorde er bannad ad hafa annarlega Gude, enn hvad er nu boded i þvi?

Iþvier boded 1. ad Þeckia Gud, ad so miklu leite, sem hann hefur opennberad sig i sijnu Orde, og til Sæluhiálpar mꝏ nægia; hveria Þecking menn fa i hans heilaga Orde, og sꝏ sem þad forsomar, hann brytur þetta Bodord. 2. Ad Trua a hann, og setia allt sitt Trunadar traust til hans Mꝏttar og Giæsku, ad hann bæde vilie og gete veitt oss allt hid goda, enn sierdeilis Fyrergefning Syndanna og eylift Lijf. 3. Eiga menn ad elska hann langt framm yfer alla adra hlute. 4. Eig-

um vier ad vona a hann, og vænta Hialpar og Adstodar af honum, og alls gods, hversu ovæulega sem ahorfest. 5. Eigum vier ad Ottast hann, þad er; ad hrædast fyrer ad styggia hann visvitande, med þvi, ad giøra nockurt af þvi, sem hann bannad hefur, og ad læra ad þeckia hans Vilia, so vier eige sieum sialfer orsøk i þvi ad vier giorum ovitande, þad sem hann hefur fyrerboded. 6. Eigum vier ad Audmykia oss fyrer honum, og reikna oss minna enn einkis verda i hans Auglite, sem er so Heilagur, Volldugur og Rettlatur, og þo so Myskunsamur og Nadugur. 7. Eigum vier þolenmodlega ad lijda allt hvad hañ a oss leggur, vitande, ad vier høfum þad med vorum Syndum forþienad, og jafnvel þott vier meigum fyrer Sakleyse lijda illt af vondum Mønnum, samt eigum vier þad med þolenmæde ad umbera; þvi Gud a frialst ad typta oss þar med, fyrer adrar vorar Synder, edur ad temia vort gialijfa Holld, og leida oss til Jdranar þar med.

Hvad er Vonen? mier synest þad vera hid sama og Truen?

Lijkar eru þær ad sönnu; enn þo eige aldeilis hid sama. 1. **Truen** er fyrre, og getur af sier **Vonena.** 2. **Truen** medtekur

tekur alleina Christum, fyrer hvert vier hliotum allt hid goda; og ber hans Forþienustu fram fyrer Guds Hætecte; hun forlijkar oss vid Gud, og afrekar oss hans Nad; Enn **Vonen** bijdur epter þvi goda, sem afrekad er, og Gud hefur lofad trwudum, og bidur um þad med fullu Trauste. 3. **Truenn** er stær i lage um þær hlute, sem nærverande eru; so sem um Guds Nad og Fyrergefning Syndanna. **Vonen** bijdur epter þvi, sem okomed er; so sem er eylijft Lijf.

Er eckert bannad i þessu Bodorde, nema þad sem þu fyrer kommu upptalder?

Allt er þad innefaled, ad sönnu i þvi, sem ædur er sagt, enn þo eru þessar Synder sierdeilis æ mote þessu Bodorde. 1. Gudleysa þeirra er segia; **Þar er eingenn Gud.** (l) 2. Þeirra er segia, ad hann eckert hirde um Verölldena, edur Hættalag daudlegra Manna. 3. Skurgoda dyrkun, er var hia Heidingium, þeir ed tilbædu Afguda sijna, sem ædur er sagt. 4. Er þad Galldur og Fiölkynge þeirra, er særa og tilbidia Andskotann, bruka þar til Ristingar og okienda Stafe, og hafa Trunad þar æ. 5. Rangar Meiningar um Gud, og Villu lærdomar, nær menn trua edur kienna annad um

(l) Ps. 14 v. 1.

um Gud og hañs Veru, Ord og Sacramenta; enn hann hefur openberad, og þad sem ej sambydur hinum retta Ordsens Skilninge, edur og um hañs Stiornan i sijnu Nꝍdar Rijke. 6. Þad er og a mote þessu Bodorde, nær menn hafa Oftraust a Gude, i þeim hlutum, er hann ei hefur lofad sinne Nꝍd og Adstod; so sem ad voga sier i Lijfs Hæska, ad þarflausu; þad er ad freista Drottens: Edur og ad liggia i einhverre vitanlegre Synd a mote Samvitskunne, hverju lijtel sem hun synest i vorum Augum, enn ætla þo ad GUD mune vera sier Nꝍdugur; þad er ad ovirda GUD, og ætla, ad hann ecke sie eins vel Rettlætur og Myskunsamur. 7. Er þad Hræsne þeirra, er lꝍtast þiona Gude, hafa hañs Ord i Munne, lꝍta sia sig i Kyrkiunne, og segiast trua a hann, enn þeinkia þo allt annad, lifa eingannvegenn epter hañs Orde, og þo þeir læteſt lifa, til ad firra sig Vijtum fyrer Mønnum, þa er þad ecke af Hiarta, ecke af Elskunne til Guds, nie Kiærleikanum til Nꝍungans.

Er þar nockur, ed sege, ad GUD sie ei til?

Liklegt være, ad sꝍ være eingenn; þo seger David: (m) Hinn Ogudlege seger i Hiarta sinu; **Þar er eingenn Gud.** Þar fyrer,

(m) Ps. 14. v. 1. & Ps. 53. v. 1.

fyrer nun þvi ei neita melga, ad slijker GUdlauser Skalkar sieu til; velldur þad þvi, ad þeir gefa sier eingar Stunder, fyrer Holldsens Girnlijse, til ad þeinkia um GUds undarleg Verk, og alvijsa Rædstøfun, bædi i Nætturu Hlutanna, er menn daglega sia fyrer Augum sier, so og i Mannanna Efnum, sem vier optlega meigum þerlega þreifa a; enn þad þyker þeim yndællt, ad eingenn skule GUd vera; edur og, ad hann ei hirde um forgeingelega Hlute, og þar sie eingenn Hegnare vondra Verka, so ad þeir lifa meige epter Villd sinne.

Hier stendur: Þu skallt eige hafa annarlega GUde, eins og talad sie vid einn?

Þad er til þess giørt, ad eige einasta aller almennelega, helldur og sierhver einn vite, ad hann sie skylldugur sierhvert eitt af þessum Bodordum ad hallda; Eigi einasta Gydinga Folk, helldur sierhver Adams Nidie; þvi seger Postulenn: (n) ad GUD hafe inneluktt allt under Ohlydnenne, þad er, under þeckingu Ohlydnennar, sem kemur af Løgmalenu.

Hvar fyrer fylger þesse grein sierhverju Bodorde; vier eigum ad ottast og elska GUd?

Hun minner oss a Skylldu vora vid hvert Bod

(n) Rom. 11. v. 32.

Bodord. Vorrar Kyrkiu Lærefader, Lutherus seger fyrst, **Vier**, þar sem Gud seger, **þu**, til ad syna, ad þetta sie ei boded einhverium einum, helldur øllum. Þar næst seger hann: **Vier eigum**; þad er til ad syna oss, ad vier sieum Skyllduger hier til: vier eigum, þo ecke getum vier. Gllds Vilie og hans Løgmaal er oumbreitanlegt; Hans Rettlæte lijtur ecke epter þvi, sem vier getum, helldur epter þvi, sem vier erum skyllduger ad giøra, og epter þvi, sem Madurenn gat hallded, þegar hann var af Gllde fyrst skapadur i Rettlæte og Heilagleika. **Ad ottast**; þetta Ord gagnar til þess, ad nær oss sierhvert Bodord i Hug kemur, edur eitt hvert þad, sem i þvi er bannad, þa skulum vier hrædast og skelfast vid ad styggia soddann ognarlega Hatign, med þvi, ad drygia þad, sem hann bannad hefur, þvert a mot Samvitskunne. Og i ødrulage, nær vier reinum og profum siaalfa oss, og finnum, ad vier høfum margfalldlega broted a mote sama Bodorde, ja og mote øllum, ad vier þa skelfunst fyrer hans Reide, hveria vier forþienad høfum, og aangrunst i Hiartanu, lærum ad audmykia oss, og bidia um Fyrergefning Syndanna, med harmþrungnum og sundurknosudum Anda: Þetta a ecke

ad

ad vera neinn Þræls Otte, so sem þegar einn Þræll strykur fraa sijnum Herra, þvi hann ottast straffed; helldur Sonarlegur, saa ed verke hiaa oss þad sem adur er sagt, og ad hrædast ad syndga framar, ad ei missum vier GUds Naad, og verdum aldeiles wtskufader. **Ad elska Gud:** Eckert er kostulegra til ad hallda GUds Bodord, enn Elskan til hanns; þvi hvern sem madur elskar, þann varast hann ad styggia, og vier þolum alla hlute fyrer þaa, er vier af Hiarta unnum; og þott ad allt þad, er vier megnum ad giøra epter GUds Bodordum, sie ofullkomed, þaa verdur allt gylldara, nær þad frammkemur af Elskunne til hanns, og fullkomnast fyrer Truna, sem ad Elskunne jafnan fylger. Hier ad auke minner þetta Ord oss aa hanns Guddomlega Elsku, hanns Giæsku hanns Þolenmæde yfer oss syndugum Ormum, so vier af þeirre sijfelldre Jhugan drøgunst, jafnvel nauduger, til ad elska hann, og fordast ad giøra þad hønum mislijkar: Og þessara Orsaka vegna, sem nu hefe eg sagt, þaa fylger þesse Grein hverin Bodorde i Christelegum Frædum; Og þetta er hid ædsta og mesta Bodord i Løgmaalenu; og so sem þad er fyrst i Tølunne, so haanga og øll hin af þvi; þviad allt

hvad i þeim er boded edur bannad, þad eig-
ini vier fyrer GUds saker ad giøra, og laa-
ta ogiørt, so ad ef nockur heidrar Fødur og
Modur, lifer hreinferduglega i Ordum og
Verkum, og annad þvilijkt, enn elskar þo
ecke GUd nie ottast hann, saa same kann
ecke Gude ad þocknast, og hefur broted þetta
Bodord, þott hann øll hin hallded giæte,
og so øll hin, fyrst hann eige þetta helldur;
ecke einasta þesswegna, ad sa sem helldur allt
Løgmaaled, enn brytur eitt Bodorded, hann
verdur sekur i øllum, so sem Jacob vottar,
(p) helldur og hins, ad Otte og Elska Drott-
ens aa ad gaanga i gegnum øll Bodordenn,
þad er, ad hvad vier giørum edur ogiørt
laatum, þaa sie Ottenn og Elskan Orsøk þar til.

Seg mier Utskyring hins Annars Bodordsins.

**Þu skallt eige leggia Nafn Drottens GUds þijns vid hiegoma.** So sem GUd hefur i fyrsta Bodordenu Skipad, ad ottast sig og elska (hvad alleina verdur giørt med Hiartanu) So hefur hann og i þvi Ødru boded, hvernenn Madurenn skule heidra sig med Muñenum og Tungunne.

Hvad merker þetta Ord, GUds Nafn?

Þad er allt þad, sem um Gud verdur kiendt af hañs Heilaga Orde. 1. Merker þad

hanns

(p) Cap. 2. v. 10.

hañs Guddomlega Veru, sem er **Ein**; og hañs Persónur, sem eru **þriár**. 2. Hañs **Eiginnlegleika**, so sem eru; hans **Giæ- ska**, hanns **Rettlæte**, hañs **Almætte**, hañs **Alvitska**, og annad þvilikt. 3. Eru þad hañs Verk; so sem **Skøpunarennar**, **Stiornarennar**; ad hann rædur og styrer øllum Hlutum, bæde a Himne og Jørdu: **Vardveitsla og Vidurhalld allra hluta**; ad hañ øllum hlutum vid makt heldur bæde a Himne og Jørdu, ad þeir ecke eydeleggiast edur forgaunga. 4. **Endurlausnar** og **Helgunarverked**; hvar um sijdar talad verdur i Utleggingu Truargreinanna: Eckert af þessu a ad leggia vid nockurn Hiegoma.

Hvad er þad, ad leggia vid Hiegoma?

Þad er ad hafa þad i Munne, nær Madur talar um hiegomlega Hlute, a hverium lijted edur eckert rijdur, þvi þa bruka menn GUDs Nafn, so sem einkis verdann hlut, og mote þvi syndga aller þeir, ed i daglegu tale nefna GUD til annars, enn ad tilbidia hann, lofa og dyrka, og ad sveria þa Eida, sem naudsynleger eru, jafnvel þott sianner væru.

er eins Synndernar fyrergefnar, og allur vor Ofullkomlegleike bættur; Enn Endurnyungen frammkemur smaamsaman, þvi sa innre Madurenn Endurnyast dag epter dag seger Paulus (s).

5. I Rettlætingunne hiaalpa God-Verkenn aldeilis eckert, þvi vier rettlætunst, ann Verdskulldunar, af GUDs Naad, fyrer þaa Endurlausn, sem sked er i JEsu Christo (t); Enn ef þad er af Naadenne, þaa er þad ecke af Verkunum (u); Enn i Endurnyungenne eru þau innefalenn, og Endurnyungen i þeim: Þvi erum vier Skapader i JEsu Christo til Godra Verka, hver GUD hefur tilbued, ad vier gaungum i þeim (x).

Verdur Madurenn so opt Rettlættur, sem hann idrast Syndanna, og truer þar verde sier tilgefnar?

Ad vijsu verdur hann þad. I fyrstu verdur hann i Skirnenne rettlættur; enn fyrer þvi, ad vier daglega syndgunst, og fremium Ranglæted, þaa þurfum vier so opt Rettlætingarennar vid, sem vier syndgunst,

 hverja

(s) 2 Cor. 4. v. 16. (t) Rom. 3. v. 24.
(u) Rom. 11. v. 6. (x) Eph. 2. v. 10.

hveria vier ødlunst fyrer sanna Idran; þvi alltijd varer Kraptur Endurgetningarennar til ad rettlæta þ.a fyrer Truna, sem idrast af Hiarta, þott eige sieum vier nema eitt sin̄ Vatni ausner, og han̄, sem daglega idrast, han̄ (so ad segia) skijrest daglega; þviad i Skijrnenne er oss Naaden gefen̄, og Andenn og Kraptuređ til ad temia hin̄ Gamla Mannen̄; Enn þeir, sem eige vilia leidast af Andanum, en̄ gaanga epter Holldenu þad eru þeir, sem idrunarlaust fram̄fara i Syndum og Glæpum, móte Samvitskun̄e, þeir hafa Skijrnarenar eingen̄ Not medan þeir eru þvijlijker, helldur eru þeir Andlega dauder, og kunna eige Gude ad þiona (y), og missa so Truna, og GUds Naad, so sem þeir ed utreka goda Samvitsku, og lijda Skipbrot a Trunne (z) hvar af þu sier, hversu omissande ad er dagleg Endurnyung; þo gagnar Skijrnen, og Endurgetningen þeim, sem so fraafalla, og jafnvel leinge hafa villt fared, til þess, ad þeir eiga apturkvæmt til Guds Naadar, so þeir geta þvingad Hollded under Ok sannrar Idranar, aptur a ny; þvi a hverium tijma sem hinn ogudlege snyr

(y) Rom. 8. v. 8. (z) 1 Tim. 1. 19.

snyr sier til GUDS, þaa skal hann lifa, allra hanns Synda skal ecke ad eylijfu minst verda seger Drottenn (a).

Fyrst menn briota þann Sattmaala, er Gud giordi vid oss i Skijrnenne, þurfa menn þaa eige ad giora hann ad nyu?

Einganń nyań Saattmaala þarf Gud ad giøra vid oss uppa sijna sijdu, þvi hanns Gaafur eru ei þannen, ad hann kunne ad ydrast þeirra (b), enn søkum vorra Afbrota þurfum vier hań ad endurnya.

Hvernenn skedur þad?

Þad skedur sierdeilis i Alltaresins Sacramente.

Hvad er Sacramentum Alltaresins?

Sacramentum Alltaresins er hid Annad Nya Testamentesins Sacrament, innsett af sialfum JEsu Christo, i hveriu, epter hanns Bode og Fyrerheite, hanns Sannarlegt Holld verdur meddeilt, i og med helgudu Braude, øllum þeim, er þad eta; og hanns sannarlegt Blod, i og med helgudu Vijne, øllum þeim, er þad drecka; enn hiaa þeim alleina, sem trua, verdur med þessare GUDs Giøf, so sem med

(a) Ezech. 18. v. 21. (b) Rom. 11. 29.

med ødru Innsigle, Endurnyungarennar Kraptar. og Syndanna Fyrergefning styrkt og stadfest, til þess, ad þeir, ed þad verduglega bruka, ødlest eylijft Lijf.

**Hvernenn maa eg þad skilia, ad Holld og Blod Drottens, sem er til Himna uppstijged, þad veitest mier i og med Braudenu og Vijnenu?**

Þu fær þad eige skiled, helldurenn hvern annann þvilijkann Leyndar-dom Guds; enn fyrer þvi ad Gud, þad er: JEsus Christur, Gud og Madur i einne Personu, i hvers **Munne alldrei voru Svik fundenn,** (a) hann hefur þad talad, og skipad þier og allre Christnenne so ad hallda, sem hann innsett hefur, þaa aatt þu, og maatt þvi stadfastlega trua; enn undrast ecke, þott hanns Holld sie til Himna upphafed, og þo nææ lægt i **Sacramentenu;** þvi Postulenn seger (b): **ad i honum bue oll Fylling Guddomsens lijkamlega,** þad er, i hañs Lijkama; so ad hvar sem Christi Guddomur er, þar er og hanns Manndomur: enn þad er vijst, ad Gud er allstadar; þvi skyllde þaa eige Christi Lijkame kunna i Sacramente Alltaresins nææ lægur ad vera, med þeim hætte, sem Gude einum er kunnugur.

Hvert

(a) Es. 53. v. 2. (b) Col. 9. v. 9.

Hvert er þad Bodord, er þu talader um?

Þad er þad, sem stendur hiaa Matthæum (c) Marcum (d) og Lucam (e); hvert þu les i Innsetningar ordunum, sem eru þesse Ord: **Giored þad i miina Minning. Drecked þad i miina Minning.**

Hvert er Fyrerheitesins Ord?

Þad stendur i Innsetningar Ordunum med þessum Hætti: **Þad er Kaleikur hins Nya Testamentis i mijnu Blode, sem fyrer ydur uthellest, til Fyrergefningar Syndanna;** J hveriumm stidurstu Ordum, þeim er lofud og heiten Fyrergefning Syndanna, sem eta Guds Sonar Holld, og drecka hanns Blod, verduglega.

Kannske ad þesse Ord: Þad er minn Lijkame, þad er mitt Blod, hafe annarlega Þijdingu, og þijdi eigi þad verulega og sannarlega Holld og Blod Drottens, helldur sieu Teikn þeirra alleina?

Þad være Ogudlegt ad þeinkia um Christum: þvi þetta er Testamentum, edur hin sijdarsta Radstöfun, er hann giørde, under sinn Dauda, vid Christilega Kyrkiu, fyrer sitt Blod; Enn eitt Testament giørest med

(c) Cap. 26. v. 26. 27. (d) Cap. 14. v. 22. 23.
(e) Cap. 22. v. 19.

med fullum og skijrum Ordum, med hverium, ad sæ sem þad giører, ecke skrifar an̄ad, en̄ han̄ meinar; og eru þad Øfgar ad ætla GUds Syni, ad han̄, sem þæ var buen̄ til ad utgefa sitt Lijf i Daudan̄ fyrer Man̄kyned, ad han̄ munde vilia draga Christnena æ talar med tvijrædum Ordum, fyrer hveria han̄ bored hefur GUds Reide, og þolad hinar bitru Helviitis Pijster, og miklu helldur læta þau skiliast, so sem þau tølud eru. Og alldrei hefur han̄ edur han̄s Postular þesse Ord ødruvijse utlagt; þad er vitanlegt, þegar han̄s Læresveinar eige skildu þad, sem han̄ kiende, þæ spurdu þeir han̄ um Skilning Kenningarennar, so sem hiæ Matth. stendur (f), er þeir beiddu han̄, ad leggia sier ut Epterlijkinguna um Jllgresed, og viijdar annarstadar; edur og, ad þeir rædduſt æ þar um sijn æ millum, so sem (g) er þeir søgdu: **Hvad er þad hann seger: innan lijtels Tijma? vier vitum eige, hvad hann seger:** Og þæ hann taladi i Epterlijkingum, lagde hann sijnum Læresveinum ut alla hlute heimuglega, seger Marcus (h); En̄ þad skal alldrei finnast, ad þeir hafe annad-

hvert

(f) Cap. 13. v. 36. (g) Joh. 16. v. 18.
(h) Cap. 4. 34.

hvert ekast um Skilning þessara Orda, edur spurt hañ þar ad, edur hann utlagt þau ødruvijse. Og þott einhver villde segia: ad þeir hafe ei giørt þeß, vegna Faafrædes sijns, þaa hygge hañ ad þeim Ordum, er JEsus sagde (i): **Eg hefe enn nu margt ad segia ydur, enn þier geted þad nu eige griped, enn þegar hann kemur sa Sannleiksins Andenn, hann mun leida Ydur i allann Sannleika.** Hver vill nu vera so ogudlegur, ad ætla, ad Mannkynsens Frelsare munde hafa leynt Skilninge þessara Orda (a hverium ad so miked ridur) fyrer sijnum Læresveinum, er hañ utsende til ad kenna øllum Þiodum? edur ad H. Ande hafe forsomad ad giøra sitt Embætte; edur i þridia lage; ad Christi Tolf Postular, sem lietu flester Lijf sitt fyrer þessa Kienningu, þeir mundu hafa Orded samrææda i þvi, ad draga Mannkyned a talar med þvi, ad laata þad ei vita rettann Skilning Ordanna, ef þau ættu ødruvijse ad skiliast enn þau hlioda? þar þo Paulus vitnar fyrer Biskupunum i Epheso (k): **ad hann hafe eingu undanskoted, ad ei hafe hann opennberad þeim allt Guds Raad.** Verd-

(i) Joh. 16. v. 12. (k) Act. 20, 26, 27.

Verdur þaa Brauded umbreitt i Holld, og Viined i Blod?

Eingannveigenn: þvi þu sier og finnur Brauded, sem þu etur, og Viined, er þu dreckur; helldur er GUds Lijkami, og hans Blod þar i, og med, þad er: ad Hollded er samteingt Braudenu, og Bloded Viinenu, þo eige siaer þu þad; eins og þu sier eige Heilagann Anda i Skijrnar-laugenne, og þo er hann Vatnenu samteingdur; Og so sem **ad GUd var i Christo** (l) **og med Christo** (m) fyrer Einingu Personunnar; þo osynelegur, so er og Christi-Holld og Blod i, og med Braudenu og Viinenu, fyrer Einingu **Sacramentesins**, þo ei verde þau sied: þvi sagde Christur, þaa er hann feck þeim Brauded og Caleikenn; **þetta er mitt Holld og Blod**, enn Braudsens og Viinsens getur hann ecke, þvi ad þeir saau þau, og medtoku þau, synelega og þreifanlega, en hanns Holld og Blod saau þeir eige; fyrer þvi greinde hann hier þann hellsta Part Sacramentesins, sem var i og med Braudenu og Viinenu. Madur kann ad skilia þetta betur af almennilegu maale, þott olijku sie saman ad jafna; þegar eg sæ einum Handskrift uppaa nockra Peninga, þaa sege eg: þetta

(l) 2 Cor. 5. v. 19. (m) Act. 10. v. 38.

þetta er Handskrift uppa so marga Peninga, enn ecke sege eg: þetta er Pappir og miin Handskrift. Nær eg afhende einum eitt Ilaat fullt af Vijne, þaa sege eg: þetta er Vijn, og ecke: þetta er Trie og Vijn, þvi hañ sier, ad þad er Pappir og Tre, sem hitt inneheldur. Þvi merkia þesse Ord Christi, i Jnnsetningar-Ordunum, so miked sem hañ sagt hefde: **i og med** þessu Braude og Vijne er mitt Holld og Blod; og þvi brukar Christeleg Kyrkia þesse Ord: **i og med**, epter Chrysostomo og Augustino, til ad utmaala þenna Leyndardom, eige til þess ad utskijra þar med Haatt og Maata, hvernenn Hollded og Bloded sie naalægt (þad fær eingenn Madur griped) helldur til ad auglysa, ad vier truum, ad þau sieu þar sannarlega og verulega naalæg, og i þessare Tru styrker oss Paulus, er hann seger (n): **Blessunarennar Kalcikur, sem vier blessum, er þad eige Meddeiling Christi Blods; Brauded sem vier briotum, er þad eige Meddeiling Christi Lijkama;** enn i allre Meddeilingu er bæde þad, sem meddeilt er, og sa, sem meddeilt verdur, so er og hier:



(n) 1 Cor. 10. v. 16.

Annarsvegar er Brauded og Hollded, Vijned og Bloded; enn annarsvegar erum vier, sem þau medtøkum; eñ hverutveggiu Hlutena, bæde þa Himneſku og þa Jardneſku nefner Poſtulenn til þeſſarar Medeilingar, þvi medtøkum vier og hverttveggia. Og dugar þetta Poſtulans Vitni, bæde til þeſs, ad ſyna, ad oſs ſie JEſu Chriſti ſañur Lijkame og Blod meddeilt i Alltareſins Sacramento, ſem og hitt, ad ei umbreiteſt Brauded og Vijned i Hollд og Blod, helldur ſamteingeſt hvert med ødru, eins og Andeñ og Vatned i Skijrnarennar-Sacramento; þvi nefnir hann hier **Meddeiling**. Munu þeſſe Ord: taked og eted, drecked aller her af, munu þau, ſege eg, tilheyra uema Lærefveinunum, ſem Drottenn talade vid i þad ſinn?

Ad vijſu tilheyra þau allre Chriſtnenne, allt til Veralldareñar Enda; eñ Poſtularner voru ſo ſem hennar Umbods-menn, til ad taka vid þeſſare Guds-Giøf; þar fyrer ſeger og Paulus, ſem þo var eige nálægur, þegar Frelſarenn iñſette þetta Sacramentum, hañ ſeger (o), er hañ talar hier um: **Eg hefe medteked af Drottne, þad eg ydur afhendt hefe.** Og aptur ſeger hañ

(o) 1 Cor. xi. v. 23.

hañ i sama Capitula (p); Ad menn skule hier med kunngiora Dauda Drottens, þar til hann kemur, þad er: allt til Enda Veralldar, nær hann koma mun Heimenn ad dæma; og Kraptur þessarra Orda: Þetta er minn Lijkame, þetta er Kaleikur hins Nya Testamentis i mijnu Blode, (med hverium þeir Himnesku og Jardnesku Hluterner verda samteingder, hann varer ævallt, so leinge Heimurenn stendur; eins og þeirra Almættis Orda, er Gud talade i Upphafe (q): vared og margfalldest og uppfylled Jordena.

Hvad er þad, ad kunngiora Dauda Drottens?

Þad er hid sama og ad giora þetta i hanns Minning (r). Þad skedur: nær vier hann lofum og prijsum, elskum og þockum hönum þa o-umrædelegu Giædsku, ad hann gaf sitt Lijf i Daudann fyrer oss; og i odrulage minnunst vier þess, ad aller þeir Velgiörningar, sem hann oss afrekad hefur, med sijnum Dauda, þeir heyra oss til, og þar fyrer tileinkum vier oss þa. J



(p) v. 26. (q) Gen. 1, 28.
(r) Luc. 22. v. 19.

þridia mäta; þar hann hefur oss so heitt elskad, þa eigum vier þess ad minnast, ad elska hver annann, epter hans Bode hia Joh. (s): Þar af skulu aller þeckia ydur, ad þier sieud mijner Lærisveinar, ad þier elskest innbyrdis; annars erum vier ecke rettsinnader Bordgester Christi.

Hvert er Gagn og Nytseme þessa Sacramentis?

Fyrsta Nytseme þess, er Truarstyrkingen.

Hvernenn styrkest Truen þar vid?

Þad skedur med þvi mote: ad sierhver einn idrande Syndare tekur til sijn þesse Ord: taked og eted, þad er minn Lijkame, sem fyrer ydur verdur gefenn; item, þad er mitt Blod, sem fyrer ydur uthellist til Fyrergefningar Syndanna: þvi fyrst Guds Sonur hefur talad þad til allra, þa veit eg, ad þad heyrer og mier til, hverju sem eg er syndugur; enn Trua min styrkest hvad mest vid þad, nær eg medtek med Munnenum þad sama Holld og Blod, i hverin GUD hefur lided fyrer mijnar Synder, so eg kann þa ecke ad efast um, ad þær sieu mier aldeilis fyrergefnar; Og þvi er Syndanna Fyrer-

(s) Cap. 13. v. 35.

Fyrekgefning hiñ Añar Avøxtur þessa Sacramentis. Hiñ þridie Avøxtur þessa Sacramentis er Efling og Styrking Krapta Endurnyungarennar: þvi ef ad Skurdgoda-dyrkararner, sem verda hluttakendur Bords og Kaleiks Dioflanna (t), Ef þeir verda Diøflanna Lags-menn; hvad mikliı helldur munu þeir verda einn Ande med Gude, (u) sem eru hluttakendur Gudlegrar Nattúru, til ad umflya þaa Spillingu, sem i Heimenum er, af Girndenne? so sem Petur ad orde kemst (x). Frelsarenn seger siælfur (y): Sa sem etur mitt Holld og dreckur mitt Blod, hann bliifur i mier og eg i honum; hvar hann talar um hina Andlegu Nautn, enn hverrar hin liikamlega er ei, nema til Fordæmingar, sem siidar mun sagt verda; enn hver ed bliifur i mier, og eg i honum, hann ber mikinn Avoxt, seger hann (z). So styrkiast nu aller þeir, ed þessa Guds Giøf rettelega bruka, æ meir og meir i Trunne, og øllu godu Verke og Gude þægelegu, sem af



(t) 1 Cor. 10. v. 20. 21. (u) 1 Cor. 6. v. 17.
(x) 2 Pet. 1. v. 4. (y) Joh. 6. v. 56. (z) Joh. 15. v. 5.

af Trunne framunkemur, fyrer Krapta Endurfæđingarennar, er hvad mest endurnyast med þessare Heilögu Nautn.

Verda þaa aller þeir, ed bruka þetta Sacramentum, hluttakande þessara Avaxta?

Laangt er fraa þvi, þess verr, hvad GUD næde og betri! þvi hefe eg ædur talad um þaa, sem þetta Sacramentum rettelega bruka; enn þeir alleina bruka þad rettelega, sem reina og **profa sialfa sig** (a): 1. **Hvert þeir true**, þad er: hvert þeir samsinne i Hiarta sijnu þvi, sem um GUD og hans Vilia er opeñberad, og her ad framan hefur vered umtalad; eñ þo allra hellst um þaa Forlijkun og Endurlausn, sem ad skied er fyrer JEsum Christum, hvers Lijkama og Blod vier medtökum i þessu Sacramento, til Stadfestingar þar um: So og i Ødru lage, **hvernenn þeir true**; þvi eige er þad nog, ad trua þad satt ad vera, sem GUD hefur i sijnu Orde opeñberad oss til Saaluhiaalpar, þar **Dioflarner vita þad einninn og trua þvi** (b), helldur og hvert su Tru sie ævaxtarsøm hiaa sierhverium sem þetta Sacramentum medtekur, hvert hañ elskar GUD, og vill þoleñmodlega lijda nockud hañs vegna, hvert hañ elskar sinn

(a) 1 Cor. 11,28. (b) Jac. 2,19.

sinn Næunga, og er liufur æ ad forlæta hønum sijnar Misgiørder, og hvert hann hefur Medaumkun med hønum, nær hønum æ moti blæs; eige einasta med Orde og Tungu, helldur med Verke og Sannleika (c), og gete hann ei med Verke, þæ sämt med innelegre Medaumkan i Hiartanu. J þridia mæta, ef þu finnur brest hiæ þier i þvi, ad eige hafer þu slijkt giørt, sem vera æ og þar vante miked til, þæ ættu ad idrast þess af Hiarta, og hafa Leida æ undanførnum Syndum, og æsetia þier ad lifa betur frammvegis, og bidia Gud um Styrk sijns H. Anda: þetta heiter ad reina og profa siælfann sig (d); og seger Postulen þad en þæ giør (e) med þessum Ordum: Reined siælfa ydur, hvert þier sieud i Trunne; profed siælfa ydur, hvert þier þecked siælfa ydur, ad JEsus Christus sie i ydur, nema þier sieud ræker.

Hvernenn kemur þad til, ad hin sanna Tru er alldrei æ vaxtarlaus?

Þad kemur so til: ad hun er kveikt i oss af Heilogum Anda i Skijrnenne, og efflest af hinum sama Anda, epter þvi sem menn

 þroast

(c) 1 Joh. 3, 18. (d) 1 Cor. 11, 28. (e) 2 Cor. 13. v. 5.

kroast ad Alldre og Vitsmunum, hia øll-um þeim, sem ei motstanda þønum, og hans Verkum, med vijsvitande Hverud; hvad Paulus kallar (f) ad hryggia H. Anda GUDs; Enn hvar sem H. Ande byr i Manissins Hiarta, þaa giører hann Truna so frioſſama, ad hun fœrer Averte, þad er, ad af henne uppspretta godar Huxaner, Ord og Giørder, sem GUD hefur boded i sinu Løgmaale, epter því sem þad kann ad verkast i þessu daudlega Hollde, hia sumum meir, enn sumum minna, so sem GUD utskipter hverium einum Gaafunn Naadar sinnar; Enn þesse Verkan H. Anda skedur med þeim Hætte, þad nærsta Mannlegur Skilningur fær þeckt og griped; Ad sa sem truer aa Gud, og øllu því sem um hann er sagt, og hier ad framan er umtalad; bæde i Utskijringu Bodordanna, og Truarjaatningunne; hann eige einasta ottast hann framm yfer alla hlute; hann hræddest ad fara ovarlega med hanns Nafn, og vanbruka þad; og ad vanhelga hans Hvijldar-daga, edur forsmaa hans Ord; so og ad giøra nockurt þad, sem bannad er i hinne sijdare Bodorda Tøblunne, og ædur er, ad nockru leite, talad um i Utleggingu Bodordanna: Og

(f) Eph. 4. v. 30.

Og eige einasta ottast hann ad fremia þetta, af þvi ad GUD er so Mættugur, og so Rettlatur, helldur og nær hañ hugleider Guds o-umræðelega Giæsku i Skøpunar, i Endurlausnarennar, og i Helgunar-Verkenu, i Þoleñmæðeñe yfer sijnum Syndum, er hañ daglega fremur, og øllum ødrum o-briotande Velgiørningum, sem vid hann frammkoma a hveriu Augnablike; þa vaknar i hañs Hiarta Elskan til GUDs, so hañ fær Lyst til ad giøra þad, hañ boded hefur, og ad fordast þad, sem hañ hefur bannad; Og fyrer þvi hañ veit, ad GUD er Heilagur, og hatar þad illa, þa leggur hañ allt Kapp a, ad iklædast einum nyum Manne, þad er, ad fara dagbatnande, so hann verde epter Gude skapadur: Enn bæde þenna Otta (sem er einn Sonarlegur Otte, so sem þa nockur hrædist goda Forelldra, enn eige Þræls Otte) so og Elskuna til GUDs, vekur Heilagur Ande i Mannenum, so ad Truen verdur avaxtarsøm, og fæder Godverkenn af sier; og þar i er Endurnyungen folgenn, sem eg hefe adur umtalad, hver þott ad sie ofullkomenn i þessu Lijfe, þa tekur GUD þau Verk fyrer fullkomenn, sem af Trunne frammkoma, søkum Forþienustu JEsu Christi.

Hver er Mismunur a millum Præls-Ottans, og Sonarlegs Otta?

Hann er sa: ad Prællen ottast eige nema Straffed, en giører eckert af Elsku edur Rækt vid sinn Herra; hvi kallar Paulus bad **Ambaattar-Syne** (g), bad er Præla, sem af Løgmaalenn villdu rettlætast, enn eige af Trunne; Enn Sonurenn bæde ottast og elskar, og hans Otte er alltijd med Elsku blandadur: betta Tvent adskilur Paulus (h) Segiande: **Pier hafed eige medteked Prælkunar Anda aptur til Hrædslu, helldur hafed bier medteked Anda Arfleidslunnar, fyrer hvern vier kollum, Abba, Fader.** Prællen verdur reidur og o-bolenmodur nær han straffadur er; Sonurenn idrast bess, ad han hafe Fødurenn stygdan; bvi han veit han giører eckert af Reide, helldur af Elsku, til ad lagfæra bad, sem abotavant er.

Er betta Sacramentum aldeilis omissande til ad verda Saaluholpenn?

Ad visu er bad omissande, øllum beim, sem bvi og bess rettre Handteran naa kuna; bvi sa sem bad forsmaer, han forsmaer Christi Bodord, er

(g) Gal. 4. v. 25. 30. (h) Rom. 8. v. 15.

er sagdé i Insetningar-Ordunum: taked og eted; item, Drecked hier af aller; enn sa, sem forsmaer hans Bodord, hann forsmaer Gud; enn þa, sem hann forsmaa, þa vill hann forsmaa (i); enn þeir, sem hann forsmaer, eiga Hlutskipte med þeim, til hverra hann segia vill aa siidarsta dege: eige þeckta eg ydur, fared fra mier aller Illgiorda-menn (k). Enn hver sem þessu Sacramento eige naa kann, hønum dugar hin Andlega Nautn, sem Frelsarenn umtalar (l) segiande; sannlega, sannlega sege eg ydur, nema þier eted Holld Mannsens-Sonar, og drecked hans Blod, þa munud þier eige hafa Liifed i ydur.

Hvilijk er þesse Andlega Nautn?

Þad er eckert annad, enn ad finna i Hiartanu, og tileinka sier, med fullre Tru og Trauste, Averke JEsu Piinu og Dauda, sem er Fyrergefning Syndanna og eyliift Liif; Og er Mismunur hinnar Liikamlegu og Andlegu Nautnar þar i folgenn: 1. Ad su Andlega Nautn verkar alltiid Fyrergefningu Syndanna; enn hin Liikamlega eige alltid

(i) 1 Sam. 2. 30. (k) Matth. 7. 23.
(l) Joh. 6. v. 53.

alltijd, og ei neina hin Andlega fylge med; þvi sumer eta og drecka overduger. 2. Þvi su Lijkamlega er onyt fyrer utan hina; enn su Andlega verkar med fullum Krapte, ꝏn þessarar, þar sem þꝏ lijkamlegu bresstur. 3. Þeirre Andlegu Nautn fylgia einguer syneleger hluter; enn ꝏn þeirra kann su lijkamlega eige ad standast.

Hvar fyrer er su Lijkamlega Berging innsett, fyrst hin næger?

Eg hefe eige sagt þad, ad hun næge, ef Madurenn kañ hiñar niotande ad verda; miklu helldur ad sꝏ. sem forsmæer, edur forsomar hina Lijkamlegu Nautn, hañ verdur eigẽ hiñar Andlegu hluttakande, þvi hañ er eige Guds Vinur; eñ þar fyrer er hin Lijkamlega Nautn boden, ad Truen kann optlega ad veikiast; jꝏ, eingenn er so sterkur, ad hañ kuñe ad treysta so uppꝏ sig, ad hañ eige einhvern-tijma bile i Trunne, hverstu sem hañ er vel uppfrædur, og samfrodur um Guds Giædsku og Myskunsemé: þvi er þad eitt hid mesta Elsku-merke Frelsarans, ad hañ hefur gefed oss sitt Holld og Blod til ad eta og drecka, bæde med Lijkamans og Truarennar Munne; so ad þegar eg medtek þessa Guds Giøf, sem ꝏ Kross-

enum

ennum er fornfærd fyrer Synder mijnar; med Lijkamans minne, þa styrkist mijn Tru þar vid, sem ædur er sagt, ad eg kunngiøre Dauda Drottens, sem dæenn er fyrer Synder mijnar, so eg þar fyrer rettlætur vrde: og þad er ad eta Holld og Blod Drottens i Andlegann mæta, edur med Munne Truarennar; æn hvers hin lijkamlega Nautn er eige alleina onyt, helldur og so sunst þeim til Fordæmingar, sem Hlutena overdugur medtekur; þvi hann verdur sekur vid Holld og Blod Drottens (m), sem jafnvel hinum Vantruudu verdur i þessu Sacramente meddeilt.

Enn þott þessu sie so vared, þa er samt hin Lijkamlega Nautn o-missande, eige einasta vegna Christi Bodords, helldur og hins; ad hun innsiglar og stadfester hia øllum þeim, er hana verduglega bruka, Syndanna Fyrergefning, epter þessum Ordum Drottens: Þad er minn Lijkami, sem fyrer ydur verdur gefenn; þad er mitt Blod, sem fyrer ydur uthellest, til Fyrergefningar Syndanna; þvi Christur hefur gefed sitt Holld ut fyrer Lijfs Heimsins; eige einasta til Endurlausnar, med

(m) 1 Cor. 11. 29.

med hverre ad Eylijft Lijf er øllum afrekad, helldur og til Fædslu i Drotteñlegri Kvølld-mæltijd, ad hun sie þad Medal Sæluhiælp-arennar, fyrer hvert ad sierhver eiñ Rett-truadur tileinkar sier Fyrergefning Synd-anna, og medtekur hana, so sem eina Stad-festingu og Iñsigle þar uppæ. Og þo þetta Orda Tiltæke þykie undarlegt: **Ad eta og dreckà** Hollð og Blod Drottens i And-legañ Mæta, þæ er þad eige ovenjulegt i Heilagre Ritningu, so seger David (n): **Þu munt eta Erfide þinna Handa,** þad er: Avøxt þijns Erfides; eins etum vier med Truareñar Muñe Avøxt JEsu Pijsla, er hañ þolde i voru Hollde, og vor iñre madur nærest þar af, eins og Lijkam-eñ af Erfide Handa vorra.

J þridia mæta; er þetta Sacramentum so sem Lutherus seger i sijnum Stærra Ca-techismo, gefed oss, so sem fyrer daglega Fædu, so ad Truarennar Kraptar endur-nærest; hañ hefur æn efa meint; Ad so sem Madurenn, þott hann ete sig eitt siñn mettann, þæ verdur hañ aptur matlyst-ugur, og þarf Fæduñar vid, til ad vidhallda sijnu lijkamlegu Lijfe; J vidlijkann mæta, þott ad ein rett-truud Sæl hafe i þessu Sa-cramento

(n) Ps. 128. v. 2.

cramento eitt sinn feinged andlega Sadningu, þad er: fulla Vissu um Kvittun Synda sinna, þær samt, (af þvi vier getum ecke æn Synda lifad) þær **hungrar oss og þyrster aptur epter Rettlætenu** (o), hvert vier ødlunst i þessu Sacramento, og verdum ad nyu metter af Nægtum Guds Huss, til Vidurhallds og Næringar vorn andlegu Lijfe, hvers vier hluttakande verdum i Endurfædingunne.

Hversu opt skal Madur bruka þad Heilaga Alltarisins Sacrament?

Þad er hverge ækveded i GUds Orde; þo mæ sjæ af þessum Ordum Christi: **So opt sem þier giored þetta**, ad þad æ optar enn sjalldnar ad bruka; eñ þad er hinn vissaste Mæte her til, ad so sem menn eta so opt sem þær hungrar, so skal madur bruka þessa Sælar-Fædu, so opt sem hann finnur til andlegs Hungurs, þad er: so opt sem hann vantar Andans Hugsvølun, epter hverre hañ mun optlega langa, sem verkar Sæluhiælp sijna med Ugg og Otta, og hugleider, ad hañ daglega rysur sinn Skijrnar Sattmæla, sem Endurnyadur verdur i þessu Sacramento,

Enn

(o) Matth. 5. v. 6.

Enn ef einhverium er so hættad, ad hann skialldan, edur alldrei, finnur þetta Andlega Hungur, og hann þar ad hallda sig fra þessu Sacramente, og medan hann er so og sig komenn?

Ad vijsu skal eingenn medtaka þetta H. Sacramentum, utan alleina hungrud Ond; enn þad verdur þeim til eingrar Assøkunar, helldur til þess meire og hrædelegri Fordæmingar, sem eige langar epter þessu Gestabode, ad hañ forsomar þau Medøl, er GUD hefur skipad til ad sundurmerkia Hiartad, og ad vekia i manneñum þorsta Rettlætesins, sem er: 1. Kostgiæfeleg og athugasømt Heyrn GUDs Orda; þvi fyrer Ordsens Heyrn kennur bæde Jdranen og Truen; þeir skarust i siinu Hiarta (p), er Petur heyrdu tala a Hvijtasunnudeguin, og GUDs Ord er lifande og kroptugt, og hveriu tvijeggiudu Sverde hvassara, þreingiande sier i gegnum Bein og Merg (q). 2. Bænen; an hverrar eingeñ kañ ad heimta af Gude, ad hañ skape i hønum hreint Hiarta, og gefe hønum nyann vissann Anda; þad er, sanna Jdran og leida a Syndenne, þvi eingenn girnest þad, sem hañ ei umbidur, þvi beidde og David um þetta (r). 3. Er

þad

(p) Act. 2,37. (q) Heb. 4,12. (r) Ps. 51. v.12.

þad Profan og Reynſla ſiálfs ſijns, hveria margann vantar, og fæſter leggia Kapp þar á, ſvo vel ſem þarf, þad er: ad þeir ecke gefa ſier Stunder til ad rannſaka ſitt Frammferde, Hugrenningar, Ord og Giørder; annadhvert af Hirduleyſe; edur fyrer þvi, ad þeir eru komner i einhvern ſyndſamlegañ Vana, ſem þeir annadhvert eigi þeckia fyrer Synd, edur þyker ſo vænt um, ad þeir ei vilia af hønum láta. Sá ſem þetta breñt forſomar, hann er eige hæfur til ad finna til nockurs Andlegs Hungurs, og þott hann hende ei nema ſináar Synder, er menn ſo kalla, þá er hønum mikſir verr fared, enn hinum allra hroplegaſta Syndara, ſem idraſt, og þecker ſijn Afbrot. Enn ef nockur, ut af ſannre Audmykt og Ofbode ſinna Synda, þykeſt overdugur vera, og þorer eige þar fyrer ad koma nærre þeſſum Helgum Domum; þá vite hann, ad hønum er þeſs meire þørf á, ad koma til þeſſa Bords; þvi her ſkal hann finna Hugſvølun Sálu ſinne; eñ hann, ſem þad hefur tilreidt Møñunum til Syndalauſnar og Sáluhiálpar, hann hefur til ſijn boded ollum þeim, ſem Erfide drygia, og þunga eru þiáder, og

lofad, ad hañ vilie þaa endurnæra (s) þvi skal eingenn hallda sig hier fraa, hverſu storſyndugur sem hann er, nær hann idraſt af Hiarta, helldur true þvi stadfaſtlega, ad Guds Þienare hefur hañs Umbod til þeſs, ad fyrergefa hønum Syndernar i JESU Nafne, hver ed ſagt hefur (t): **Hverium hellſt þier fyrergefed Syndernar, þær ſkulu þeim fyrergefnar verda; Item (u): Hvad þier leyſed aa Jordu, ſkal aa Himnum leyſt verda.**

Hverneñ ſkal Madur rettelega bua ſig under Medtekningu þeſſa Sacramentis?

Þad er þrennt, sem þier byriar i þeſſu ad athuga. 1. Hvad þu giøra ſkallt, aadur eñ þu geingur til þeſſa Sacramentis. 2. Hvad þu ſkallt giøra i Aflauſnenne, og aa medan þu ert ſtaddur fyrer Alltarenu. 3. Hvad þu aatt frammvegis ad giøra.

Hvad ſkal eg giøra aadur enn eg geing til Sacramentis?

Þad hefur þu optlega heyrt, ad eingenn ſkal þetta Sacramentum medtaka, utan hann hafe aangurfullt Hiarta fyrer Syndernar; enn fyrer þvi, ad vier ei getum þvi til vegar komed af vorum Kroptum alleina; þvi

(s) Matth. 11. 28. (t) Joh. 20. v. 23.
(u) Matth. 18. 18.

þvi Gud er sa, ed verkar i oss, bæde Viliann og Verked (x), þa attu fyrst ad bidia Gud um, ad sundurkremia Hiarta bitt med alvarlegri Idran, og giöra þig hæfelegañ til þessa Gudrækneñar Eyrendes; enn fyrer þvi, ad GUD hefur gefed þier i Endurgetningunne Krapta til ad samverka sier i þijnu Sæluhiälpar-verke; þvi seger Gud hia Esaiam (y): **Hreinsid ydur, þvoed ydur.** Og enn: **Sundurrijsed eige ydar klæde, helldur ydar Hiörtu:** þa attu alla þa Atburde ad bruka, sem Gud hefur adur gefed þier Krapta til.

Hvernenn fæ eg best vaked i mier þessa Krapta Endurgetningareñar, til ad sundurkremia mitt Hiarta?

Þu hefur adur heyrt, hvad eg sagt hefe um Bodordenn, og þeirra Skilning, og hvad i þeim sie boded og bannad. Hugleid þad nu med þier gaumgiæfilega, og rannsaka þin innstu Fylsne þijns Hiarta, hvad margt þu hefur ogiört læted, af þvi sem þar er boded; og i annann stad, hversu margt þu giört hefur af þvi, sem þar i er bannad, eige einasta oviliande og af Bradræde, helldur og med Umþeinkingu, og af asettu Rade. Hugleid nu under eins hvad stor HErra

S 2 Gud

(x) Phil. 2, 13. (y) Es. 1, 16. (z) Joel. 2. v. 13.

Guð er, hverfu Mættugur, ad hann getur strax kastad hier med Liife og Saalu i eylijfann Elld (a); hverfu Vijs, ad hann veit jafnvel þijna heimugleg-ustu Þanka; hverfu Rettlatur, ad hann vill dæma Mannenn til eylijfra Kvala, fyrer Syndernar; ja, hinar-minstu Synder, og Leyndeleguftu (b) jafnvel, nema Mad-urenn idrest þeirra og true a Sonenn; enn þu veitst eige nær Daudenn kallar þig fyrer Guds-Dom. Nær þu hugleider þetta gaumgiæfelega, mun þier eige koma þa til Hugar ad idrast þess, ad þu hafer styggt so Volldugann, so Vijsann og Rettlatann HErra, enn leidt yfer þig eylijfa Fyrer-dæmingu? og i Sannleika: vier idrunst þess nærsta miøg, ef vier høfum sialfumoss Skada giørt af Bradræde, Forsomun, edur Gaa-leyse, annadhvert a Formegum vorre, edur Heilbrygde; og þvi skylldu menn þa ecke idrast þess, ad vier høfum med Syndunum leidt yfer oss Guds-Reide, sem brenn-ur allt til nedsta Helviitis (c), og eylijfar Helviitis-Pijsler, sem eru obærelegar? Hugleid og þad i ødrulage, med eingu minne Gaumgiæfni, helldur enn hid fyrra, hverfu

(a) Matth. 10, 28. (b) Ps. 90. 8. (c) Devt. 32. v. 22.

hversu Naadugur, Giæskufullur, og Þolenmodur, ad sie þesse store HErra: les þad, sem sagt er um hañ, i Utskijringunne yfer Truargreinernar, ad hañ hefur skapad þig, vidhelldur og forsorgar þig daglega, med øllu þvi, sem i Fyrstu Greinenne er upptaled; ad hann hefur Endurleyst þig med herfelegum Dauda og Pijnu sijns Eingetens Sonar, hver høñum er so kiær, sem sialfur hann; hefur Helgad þig og Endurgeted i Skijrnenne, sem varst daudur i Syndenne, og giørt þig, sem varst **Reidennar Barn** (d), ad sijnu **Barne og Samarfa JEsu Christi** (e), ad hann hefur skipad þier ad bidia sig um alla þaa hlute, er þier æliggur; og lofad, ad hann villde þig bænheyra, og bænheyrer daglega; jaa, þott þu hann eige beded hafer, so sem byriar, þaa hefur hann eige læted þig vanta sijnar Astgiafer, helldur er hann Þoleñmodur, hefur sparad þig midt i Syndunum, til ad draga þig til Idrunar; Og ad sijdurstu hefur hann gefed þier sijns Sonar Holld og Blod, til ad eta og drecka, til Stadfestingar um allra þinna Synda Fyrergefning, og sialfur gefed þier þetta dyra Medal til ad forlijkast vid sig: Enn þenna so Naadugann



(d) Eph. 2. 3. (e) Rom. 8. v. 16. 17.

Giæſkurijkann og Þolennmodgun GUD hef-
ur þu daglega ſtygt med vitanlegum Synd-
um, ja, margfalldlega, ſijdan þu lofader
Bot og Betran ſijdarſt i Skrifta-Stolnum;
ſeg mier: nær þu þetta hugleider, mun þier
ei koma til hugar, ad láta þig þad angra af
Hiarta? þvi ef god Børn edur Þienarar
idraſt þeſs, ad ſtyggia goda Forelldra edur
Huſſ-bændur; þvi ſkylldu men̄ þa ei láta ſig
þad angra, ad þeir ſtyggia ſo godann GUD,
hvers Naad og Giæſka ad yfergnæfer allann
Skilning. Af þeſſare Rañſokn ſiálfs ſijns, og
þvi Angre, ſem þar af verdur, ſpretta og fram̄-
koma þeir Hluter, er Gud krefur af idran-
de Manne, under Fyrergefning Syndanna,
ſem er: Sannarleg Audmykt fyrer hønum,
nær þu ber-ſaman hañs Giæſku og þijna
Illſku, hanns Heilagleik og þinn Saurug-
leik, hañs Þolennmædi og þijna Þvermod-
ſku, hans Truſeſte og þijna Brygdmælge,
hanns Dyrd-og þijna Veſølld, og allann
þinn Overdugleika, vid hañs Guddomlega
Hátign. J Ødrulage, nær þu ſaman-
ber þetta, og ſier þar af, hverſu mørg Tiu
Þuſund Punda, ad þu ſiert GUde-ſkylld-
ugur, og átt einkis Urkoſte, nema ad þier
kaſtad verde i hin ytſtu Myrkur, hvar vera
mun Op og Tanna-Gnyſtran, utan hann
uppgefe

uppgefe þier alla Skullðena; enn þier kem-
ur til hugar, að þinn Náunge hafe giørt þier
á moti, þá muntu sjá hvað lijted það er,
hiá því, sem þu ert GUðe skylldugur: og
ef þu villt fá þinna Synda Kvittan, þá mun-
tu fyrergefa hønum, ut af Hiarta, sijnar
Motgiørðer við þig, og ecke þeinkia til að
hefna þess á hønum framveigis, hversu stort
og mikið sem það er; því, nema þu so giør-
er, þá er það forgefens, að þu iðrest, og
þu hefur ecke rett að festa þijna Tru á, um Kvitt-
un Syndanna, nema þu forláter þijnum
Broður sijnar Misgiørðer. Þetta er það
hellsta, sem þu átt að giøra under Aflausn-
ena, enn það er eige einrar Stundar
Verk, því er þier einsætt, að taka til að huxa
her um nockru áður enn þu fer til að forlijka
þig við GUð, i Skrifta-stolnum? og þar
með **aðgreiner þu** hvað best **Drottens
Lijkama** frá annarre Fæðu, so sem Postul-
enn að orðe kemst (f). Þegar þu nu
hefur sundurkramed þitt Hiarta með Minn-
ingu Synda þinna, og GUðS Reiðe, og
hanns Giæsku, að samverkanda H. Anda;
þá gack inn að Skriftar-stolnum, epter Chri-
stilegri Siðvenju; og játa þijnar Synder
fyrer GUðs Þienara; og heyr, með Athyg-
 li,

(f) 1 Cor. 11. v. 29.

li, hvad hann þier af Guds Alfu seger, og bodar; og tru þvi stadfastlega, ad ef þu ert sanniðrande, þa hefur hann Valld til ad fyrergefa þier Syndernar, epter Christi eigeñ Ordum; eige af siaalfum sier, þvi hañ er Madur, syndugur eins og þu, helldur i Umbode Drottens., og epter hañs Fyrerheite; og þegar hann so giørt hefur, þa maattu vera fullviß þar um, ad þijnar Synder eru kvittar i Himnenum, hversu sem þær eru fular og andstyggelegar; og til eins Innsigles og Stadfestu her uppaa, þa medtekur þu skømmu þar epter, þad sama JEsu Christi Hollð og Blod, sem fyrer þijnar Synder do aa Krossenum; Enn þu aatt støduglega ad trua, eige einasta, ad þad sie i Sacramentenu verulega og sannarlega naalægt, helldur ad þad sie fyrer þijnar Synder gefed og uthellt, þvi seger Lutherus i Frædunum: Sa er sannarlega maklegur og velskickadur, sem Truna hefur aa þessum Ordum: fyrer ydur giefst og uthellest til Fyrergefningar Syndanna, þviad þetta Ord, fyrer ydur, krefur fullkomlegrar Truar i Hiartanu. A þessum sijdurstu Ordum vardar miked um, ad
hafa

hafa greinelegañ Skilning; eñ ſu er Mein- ing þeirra: ad ſa ſem vill gꜵnga verdugle- ga til GUds Bords, hann ſkule þvi ſtød- uglega trua, ad Chriſti Lijkame og Blod ſieu utgefeñ til ſinna Synda Fyrergefning- ar, og þad ſama ꜵttu ad hira, þegar þu heyrer þeſſe Ord leſeñ i Jñſetningar Ord- unum, fyrer Alltarenu; og nema þu truer þvi, þꜵ ertu overdugur, og verdur ſekur vid Holld og Blod Drottens (g) hier til Fordꜵmingar; þvi byriar þier vel ad proſa ſialfann þig, epter Poſtulans Bodi (h), hvert þu ſiert i Trunne, þad er: hvert þu truer þeſſum Ordum; ſo eru nu þeſſe Ord: Taked og eted, þad er minn Lijkame, ſem fyrer ydur verd- ur geſinn; Drecked aller hier af, þad er Kaleikur hins Nya Teſtamentis i mijnu Blode, ſem fyrer ydur uthell- iſt til Fyrergefningar Syndanna, þau eru, ſege eg, ſo ſem Hønd GUds, med hverre hañ retter oß Fyrergefningu Synd- anna i Sacramentenu; enn Truen er, ſo ſem Hønd ſyndugs Manns, er vid henni tekur: Enn þott Truen ſie veik, þad giører ei þann overdugann, ſem er Bord-geſtur

S 5 Drottens;

(g) 1 Cor. 11. v. 27. (h) 1 Cor. 11. v. 28.

Drottens; þvi ein veik Tru, er þo samt Tru; og ein veik Hønd tekur eins vel vid Olmusu, og su sem fullhrausst er; og sæ sem giarnan villde vera truar-sterkare, hann berst vid Truna; og af þvi hinu sama, ad hañ berst vid hana, þæ mæ hañ vita, ad hañ er i Trunne; hann seger med Fødur hins Tunglsiuka: eg true ad sonnu HErra, enn hiælpa þu Vantru minni (i): sæ sem Vantruadur er, hañ truer aldeilis ecke; eñ hinn Veiktruade hañ truer, eins og einn halltur geingur, þo ei gænge hañ so sliott sem hiñ heilfætte: þvi skal hann hvad hellst bruka þetta Sacramentum, hvar hañ mun finna Andlegann Styrk; þvi GUd er Trur, og hann, sem þad hefur innstiptad, vill ei lijttlogandi Horkveik utslockva (k); enn æ medan læte hann sier nægia Drottens Nææd, þvi hanns Kraptur fullkomnast i Breiskleikanum (l). Þad þridia er þad, sem þu giøra ætt, epter þad, ad þu hefur þanneñ medteked HErrans Lijkama og Blod, sem er: ad þu skallt betra þinn Lifnad daglega, þad mesta þier møgulegt er, og

(i) Marc. 9. v. 24. (k) Es. 42. 3.
(l) 2 Cor. 12. 9.

og veria þar til allri Arvekni og Ástundan, öllum Sálar og Lijfs Kröptum, ad kroßfesta þitt Hölld med þeß Girndum og Tilhneigingum, enn iklædast einum Nyum Manne, sem epter Gude er skapadur; og nema þu so giører, og ef þu lætur þier þykia vænt um þinar fornu Synder, þa spiller þu þeirre Kvittun, er þu hefur ádur feinged; þvi sagde Drottenn (m) vid Horkonuna, er hann afleyste i Musterenu: gack burt og syndga ei framar; og vid hinn karlæga, er hann læknade vid Dyked Bethezda, sagde hann (n): syndga nu eige framar, ad ei hende þig annad verra; Og hvad er þad? vier bidium GUd ad taka fra oß Syndena, enn vier elskum hana þo, og villum ei strijda i mote henne, þar GUd hefur þo gefed oß Krapta þar til. Vert þvi ei siálfum þier so illur og oþarfur, ad þu onyter þeßa GUds Giøf, med vijsvitande Ydkun sömu Synda, edur spiller þeirre Idran med hverre þu afrekader þeirra Kvittan; sierdeilis þar þu ei veitst, hvert þu átt hennar Kost optar; þvi hun er ecke i þijnu Vallde, nær þu einusinne hefur utreked og utslöckt Andann med Þvermodskunni og Ohlydnenne vid GUd, hverium þu hefur lofad

(m) Joh. 8. 11. (n) Joh. 5. 14.

lofad Bót og Betran. Hugleid hvad ó-
nietanlegann Velgiørning þu þeged hefur i
þessu Gestabode, sem er Kvittun Synda
þinna, sem fyrer Guds Sonar Blod er
afrekud, hvers minste Drope ad er Þus-
undsinnum dyrmætare eñ Himen og Jørd:
Vert þvi ecki so oþacklatur, ad þu ecke vidur-
keñer þeña yfermæta stora Velgiørning
med Christelegu Lijferne, og Ydkun þeirra
Hluta, er GUD boded hefur, eñ Leida
og Hatri á þvi, sem hañ hefur bannad.
Lát bier til hugar koma, hvad heitt
hañ hefur þig elskad, og hvad mikla
Elsku þu ert hønum aptur á mot skylldug-
ur um. Enn ef þu elskar hann, þá **verda
þier eige hañs Bodord þung**
(o), helldur sprettur allt Gudrækilegt Fram-
ferde siálfkrafa af Elskunne til hañs, þvi
hun er Rot allra Christilegra Dygda. Þu
hefur i þessu Sacramente endurnyadann
Sattmála, er GUD giørde vid þig i Skijrn-
enne, og þad Heit, er þu hønum giørder,
ad afneita Dioflenum, og øllu hañs At-
hæfe; Siá til, ad þu eige riufer þad aptur
á ny med vijsvitande Syndum og Glæpum.
I þessu Gestabode hefur GUD endurnyad
þá Krapta, er hañ gaf þier i Endurfæding-
unne

(o) 1 Joh. 5. 3.

unne, vara þig, ad eige nidurbrioter þu GUds Verk, og hanns Rijke i þier, med Satans Verkum hañs þionustu. Þu medtokst Hollð og Blod Drottenns til ad styrkia þijna Tru med, um Fyrergefning Synda þinna, og þu truder því, ad þær være þier fyrergefnar; eñ ef su Tru varer ei leingur eñ i það siñ, og verður sijdañ ávaxtarlaus, þa er hun eige betre enn þeirra, sem trua um stunðarsaker, og falla fra á Freistingar-tijmanum (p), og vill það þa lijted gagna þier, ad þu hefur truad, helldur mættu vita, ad þu hefur mist Truna, nema hun bere Avöxt, því Truen er dauð án Verkanna, seger Jacob (q); Enn þu ert að nyu fallenn i GUds Oblyðn; Heyr því Peturs Ord (r), þar hann seger: Ef þeir, epter það þeir umflued hafa Saurgan Heimsins, fyrer Þeckingu Drottens og Frelsara vors, JEsu Christi, verda aptur af þeim fangner og sigrader, þa eru þeirra sijdare Kior lakare ordenn enn hin fyrre; því betra være þeim eige ad hafa

(p) Luc. 8. 13. (q) Cap. 2. v. 17. 20.
(r) 2 Pet. 2. v. 20. 21. 22.

hafa þeckt Veg Rettlætesins, helldur enn ad þecktum hønum, ad vijkia fra þvi Heilaga Bodorde, sem þeim er afhendt; enn þa hender þad, sem plagar ad segiast i hinum sanna Malshætte; Hundurenn er aptur horfenn, til sinnar eigen Spyu, og hid þvegna Svijn til Leir velltuñar. Enn med þessu meinar eige Postulen daglegar Avirdingar GUds Barna, sem eingenn fær vidgiørt, og eige þott þeir rata meige i stærre Synder, þvi þeir eiga jafnan apturkvæmt til GUds, fyrer Idranena, sem GUD ottast; um hveria David talar (s) med þessum Ordum: **Þo ad hann hrase, þa verdur hann eige burtkastadur, þvi Drottenn helldur i hønd med hønum.** Og Paulus huggar oss med þvi (t), **ad eingen Fordæming sie hia þeim, sem eru i Christo JEsu, hverier eige gaanga epter Holldenu helldur epter Andanum; þad eru þeir, sem eige lata Syndena rijkia i sijnum daud-**

leg

(s) Ps. 73. v. 24. (t) Rom. 8. v. 1.

legum Lijkama, ad þeir þione henne i hennar Girndum (u). Og hefe eg so sagt þier nockud af Christenndomenum; hvers Ender og Avøxtur er þad, sem fyrer skømmu var umtalad, sem er Fyrergefning Syndanna, hverre ad fylger Eylijft Lijf.

(u) Rom. 6. v. 12.

## Þrij-einum Gude sie Lof og Dyrd!



J Citatiunum so vel i þessare ; sem hinne fyrre Edition hefur þetta yfersiest

Pag. 169. (d) Luc. 13. l. 12.
Pag. 190. (y) Es. 5. l. Es. 3.
Pag. 252. (a) Es. 53. v. 2. l. v. 9.

Og hvad fleira hefur mætt misþryckiast, er godfus Lesare vinsamlega beden ad leidretta.

